ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT!
LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



Þetta eintak af STÉTTABARÁTTUNNI er eingöngu helgað undirbúningi II. þings KSML. Það fylgir 6. tbl. til áskrfienda, en verður ekki selt í lausasölu nema að takmörkuðu leyti.

## Greinargerð
# Um stöðu konunnar

Á hinu langa þróunarskeiði mannkynsins hefur staða konunnar rétt eins og staða karlmannsins ætíð ákvarðast af þeim framleiðsluháttum, sem ríkt hafa á hverju tímabili. Sagan sýnir okkur, að fjölskyldan og sambýlisform manna eru breytileg og eru breytingarnar háðar þjóðfélagslegum breytingum. Rannsóknir sem hafa farið fram á frumstæðum þjóðflokkum hafa uppfrætt okkur mikið um forsögu mannkynsins.

Í ættsveitarskipulaginu eða frumkommúnismanum var hvorki rúm fyrir stéttir, arðrán né ríkisvald. Fólk lifði af ávöxtum jarðarinnar. Hagrænar undirstöður þessa skipulags voru lág íbúatala og mjög frumstæð verkaskipting og vegna stöðugra barneigna kvennanna varð verkaskiptingin milli kynjanna eðlileg. Konan sá um heimilið, barnauppeldið og safnaði ávöxtum og rótum til lífsviðurværis. Síðar er akuryrkjan þróaðist fór hún yfir á starfsvið konunnar. Og þetta gerði hlutverk konunnar í framleiðslunni mikilvægara en karlmannsins. Karlmaðurinn sá sem áður um veiðar, sem með akuryrkjunni fór að hafa minni þýðingu. Hvort um sig var hæstráðandi á sínu sviði.

Það sem er mikilvægt á þessu stigi er, að það sem menn bjuggu til í sameiningu var sameiginlegt og reglan um eignarhald á eigin framleiðslu var hér í gildi. Þar sem móðerni barna var aðeins víst á þessum tíma, var skyldleiki rakinn í móðurætt.

Næsta stig í þróuninni var það, er menn tóku að temja dýr til húsdýrahalds. Við það jókst framleiðslan mjög mikið og menn fóru að framleiða meira en þeir þurftu sér til lífsviðurværis. Það varð forsenda reglulegrar vöruskiptaverslunar og varð búféð vara sem lögð var til grundvallar. Þessar miklu breytingar á framleiðsluháttunum höfðu síðar afdrifaríkar afleiðingar fyrir valdastöðu konunnar. Verkaskiptingin sem áður hafði tryggt henni völd innanhúss tryggði nú karlmanninum völdin. Þessu olli verkaskiptingin sem varð utan fjölskyldunnar, því að í raun var verkaskiptingin á milli kynja söm og áður. Vinnuálagið jókst mikið og við þessar breytingar verður hin fyrsta mikla verkaskipting í þjóðfélaginu. Þjóðfélagið klofnaði í tvær stéttir, húsbændur og þræla - arðræningja og arðrænda. Þrælarnir, búsmali og vörurnar sem karlmaðurinn fékk í skiptum, voru allt séreign hans, konan átti enga hlutdeild í eignaréttinum. Og nú varð verksvið karlmannsins mikilvægara og störf konunnar ekki annað en lítilmótleg aukaatriði.

Með einveldi karlmannsins í fjölskyldunni var móðurréttinum kollvarpað en föðurrétturinn upptekinn. Einkvæni tók við af parahjúskapnum og þar með glataði konan algjörlega þeim réttindum sem hún hafði haft áður. Hún varð nú eign karlmannsins og ól honum óvéfengjanlega erfingja, sem erfðu eignir hans að honum látnum. Í sérhjúskapnum er konan efnahagslega réttindalaus og kynferðislega kúguð. Orsökin er einkaeignarétturinn, þar sem karlmaðurinn sem eignaaðili er hinn beini kúgari. Svo lengi sem einkaeignin er í höndum hinna einstöku fjölskyldna mun þetta vera aðaleinkenni kúgunar konunnar. En í dag lifum við í þjóðfélagi þar sem meirihluti fjölskyldnanna er eignalaus - er þá orsaka kúgunarinnar ennþá að leita í fjölskyldunni eða verðum við að leita annarsstaðar?

Til að svara þessari spurningu verðum við að taka auðvaldsskipulagið fyrir og á hvern hátt kúgun kvenna í því er varið. Í hinni óskipulögðu framleiðslu auðvaldsþjóðfélagsins skiptir söknin eftir hámarksgróða höfuðmáli. Auðvaldið fjárfestir ekki til þess að skapa atvinnu og framleiða með hag almennings fyrir augum.

Sé litið á stöðu kvenna úti á vinnumarkaðnum sjáum við að uppgangstímum er starfsþáttaka lág-

frh. bls. 2



# Gegn nýlendukúgun dana á Grænlandi og í Færeyjum

Stéttabaráttan hefur ekki upplýst lesendur sína hingað til um ástand mála í Færeyjum og heimsvaldayfirráð danska einokunarauðvaldsins á þessum eyjum; þó eru færeyingar einna skyldastir okkur og búa nú við svipað þjóðskipulag og við meðan Ísland var enn dönsk nýlenda. Og aðeins tvær greinar hafa birst um svívirðilega nýlendukúgun dana á grænlendingum (sjá 11./12. tbl. Stb. '74 og 9. tbl. '75). Þó standa þessar þjóðir okkur nær en margar aðrar, er einnig eiga í baráttu við erlenda heimsvaldastefnu. Tími er því kominn til að bæta úr þessum vanköntum og því er það m. a. verkefni stofnþings KFÍ að móta ákveðna afstöðu til sjálfstæðisbaráttu færeyinga og grænlendinga.

### Áhrif danska einokunarkapítalismans í Færeyjum

Færeyjar hafa verið dönsk nýlenda um langan aldur. Undirtök dana í Færeyjum byggja að sjálfsögðu fyrst og fremst á gífurlegum áhrifum þeirra á færeyskt efnahagslíf. Stærsti hluti bankaauðmagnsins í Færeyjum kemur frá Danmörku og með fjárfestingum og lánveitingum danska ríkisins hefur þar byggst upp nútímalegt framleiðslukerfi fiskafurða. Hið einhliða atvinnulíf færeyinga hefur einkum og sér í lagi þróast með það fyrir augum að þjóna heimsvaldastefnu dana, því Danmörk þarfnast einmitt fiskhráefna. Að auki er allur innflutningur til eyjanna í umsjá danskra einkafyrirtækja. Aðild Danmerkur að EBE hef ur einnig haft það í för með sér að erlend yfirráð í Færeyjum hafa aukist og ógna nú beinlínis tilverugrundvelli þjóðarinnar.

Þegar sjálfstæðishreyfing færeyinga náði hámarki skömmu eftir seinni heimsstyrjöldina og meirihluti íbúanna krafðist sjálfstæðis í þjóðaratkvæðagreiðslu, virti danska nýlenduveldið slíkt að vettugi og kom leppum sínum til valda í Færeyjum. Þeim tókst að kljúfa sjálfstæðishreyfinguna með því að koma á fót svokallaðri heimastjórn og múta þar af leiðandi hluta færeyskrar borgarastéttar. Dönsku nýlenduherrarnir hafa einnig hunsað óskir meirihluta eyjaskeggja um brottkvaðningu bandarískra og danskra Natóhersveita af færeyskri grund.

En baráttan gegn dönskum yfirráðum í Færeyjum og erlendri heimsvaldaásælni er aftur að færast í aukana. Fyrir nokkrum árum voru þar stofnuð marxísk-lenínísk samtök, Oyggjaframi m-l, sem stefna að myndun kommúnistaflokks í Færeyjum. Allir heiðarlegir andheimsvaldasinnar hljóta að styðja í verki baráttu færeyskrar alþýðu fyrir sjálfsákvörðunarrétti Færeyja og aðskilnaði við danska ríkið.

### Svívirðileg nýlendukúgun dana á Grænlandi

Þótt yfirráð dönsku einokunarauðherranna á færeyskt efnahagslíf séu nær algjör er kúgun þeirra á grænlenskri alþýðu margfalt svívirðilegri og grimmdarlegri. Þótt lífskjör almennings í Færeyjum séu allt að því sambærileg við aðrar norðurlandaþjóðir er aðbúnaður grænlenskrar alþýðu miklum mun verri og jafnast fyllilega á við svæsnustu einræðisríki í þriðja heiminum.

Yfirráð dana á Grænlandi má rekja allt aftur til miðbiks 18. aldar, en síðan þá hafa þau farið vaxandi, en þó einkum frá 1953, þegar Grænland varð hluti af Danmörk. Fjárfesting danska imperíalismans í Grænlandi, einokun þess á verslun og auðlindum, hefur haft í för með sér gífurlega röskun á þjóðfélagslegum og mennningarlegum hefðum grænlendinga. Danska borgarastéttin hefur mergsogið alþýðu landsins og notfært sér takmarkaða mótstöðu hennar. Grænlenskt vinnuafl er flutt til eftir þörfum herraþjóðarinnar, en á síðustu tveim áratugum hafa um 100 byggðir verið leystar upp og fólk er flutt nauðugt milli landshluta - allt eftir því hvernig dönsku auðvaldi hentar best að arðræna það. Einnig er talsvert um innflutt vinnuafl, en grænlenskir verkamenn eru mun verr launaðir en erlendir. Danir halda grænlendingum niðri með alls konar ráðum, t.d. með óhóflegum innflutningi áfengis, sem aðeins er til þess gert að halda þeim í kúgunarfjötrum. Á Grænlandi er að finna ýmsar náttúruauðlindir, svo sem kol og krýólít, sem hvorttveggja er háð

Frh. á bls. 5

FRAMHALD AF FORSÍÐU

# Um stöðu

launakvenna mikil. En þegar samdráttur verður á vinnumarkaðnum hverfa þær inn á heimilin. Það er alltaf litið á starf kvenna utan heimilis sem aukastarf. Þeim eru þar af leiðandi greidd lægstu launin og atvinnuöryggi þeirra er lítið sem ekkert. Þannig notar auðvaldið konurnar sem varavinnuafl í blindri sókn sinni til hámarksgróða. Undirstaða þess hve auðvelt það er í framkvæmd er hugmyndafræðin um móðurhlutverkið sem aðalævistarf þeirra. Það er þó staðreynd að hið eiginlega móðurhlutverk tekur yfir tiltölulega skamman tíma af starfsævi hverrar konu.

Þær konur sem eru hafðar sem varavinnuafl í þjóðfélaginu tilheyra fyrst og fremst verkalýðsstéttinni. Þær eru kúgaðar sem hluti af stétt sinni og að auki hafa þær sérstöðu á vinnumarkaðnum vegna kynferðis síns. Þar sem þær eru konur fá þær lélega vinnu, eru illa launaðar og vinnan er óörugg. Þetta er grundvöllurinn fyrir hinni sérstöku kúgun kvenna. Þessari kúgun er viðhaldið af hugmyndafræðinni um að konurnar séu miðpunktur heimilisnins og að starf þeirra á vinnumarkaðnum sé aðeins aukastarf. Konur eru þannig kúgaðar í tvöföldum skilningi:

1. Þær lifa í samfélagi við framleiðsluhætti þar sem hinir fáu græða á því að arðræna meirihlutann.
2. Konur hafa einnig verið undirokaðar af yfirráðum og valdi karlmannsins á flestum sviðum aldalangt - þ.e. frá því að þjóðfélögin urðu stéttskipt.

Við sjáum á þessu að orsaka kúgunarinnar á konum er fyrst og fremst að leita í þjóðfélagsgerðinni (auðvaldsskipulaginu), en ekki innan fjölskyldunnar, og að lausnarinnar er aðeins að vænta með afnámi þeirrar þjóðfélagsgerðar.

Í auðvaldsþjóðfélaginu er efnahagsgrundvöllur heimilisins sá að karlmaðurinn vinnur fyrir launum og greiðir með þeim heimilisútgjöldin, en konan stritar við heimilisstörfin fjárhagslega háð manni sínum, útilokuð frá félagsmálum og þátttöku í stjórnmálalífi. Hið sósíalíska efnahagskerfi umbyltir þessum gamla efnahagsgrundvelli heimilisins. Það veitir konunni örugga atvinnu og skilyrði til að stunda hana. Launavinnan gerir hana fjárhagslega sjálfstæða og vöggustofan eða barnaheimilin létta henni heimilisáhyggjur liðna tímans. Þetta nýja fjárhagslega sjálfstæði veitir konunni einnig mikinn frítíma til margra annara starfa. Hún getur betur notið samvista við eiginmann og börn og hún getur nú tekið þátt í þjóðfélagslegu og pólitísku starfi. Þetta aukna sjálfstæði konunnar breytir síðan smátt og smátt viðhorfum karlmannsins og barnanna til hennar og ekki hvað síst viðhorfum hennar til sjálfrar sín. En hún hefur öðlast meira. Hún hefur með þátttöku sinni í samfélagslegri vinnu öðlast starfsþroska og tilgangsríkt skapandi líf. Þetta allt gerir hana ekki aðeins að góðum félaga manns síns og góðum uppalanda heldur skapar það einnig góðan þjóðfélagsborgara, sem er sér meðvitandi um stöðu sína og umhverfi sitt og er ákveðinn í að leggja grundvöllinn að nýju þjóðfélagi.

## Stéttaskilgreining

Stéttaskilgreining er okkur nauðsynleg til að geta svarað spurningunni: "Hverjir eru vinir okkar og hverjir óvinir?" (Mao). Þetta á einnig við um konur. Ef okkur tekst ekki að skilgreina stéttarstöðu kvenna á réttan hátt mun baráttan fyrir frelsi konunnar ekki bera árangur.

Ef við ætlum að beina kvennahreyfingunni inn á réttar brautir, auka hana og styrkja, þurfum við á nákvæmri þekkingu um kjör kvenna að halda. Það er útbreiddur misskilningur að það sem konum er sameiginlegt þ.e. kynferðiskúgunin sé mikilvægara en það sem aðgreinir þær: stéttastaðan. En þetta kemur ekki heim og saman við raunveruleikann, því konur eru ekki neinn sameinaður hagsmunahópur utan og ofan við allar stéttir. Konur skiptast í stéttir rétt eins og karlar, og bæði efnahagsleg aðstaða þeirra og hugmyndir mótast af stéttastöðunni. Einnig kynferðiskúgunin birtist á mismunandi hátt hjá hinum ólíku stéttum. Konan sem er læknir lifir og hugsar á annan hátt en verkakonan, jafnvel þótt þær taki báðar þátt í kvennahreyfingunni. Vandamál þeirra eru sitthvors eðlis og krefjast ólíkra lausna. Sameiginlegt þessum konum er að þær vilja báðar berjast gegn kvennakúgun og standa saman gegn þeim sem völdin hafa í þessu þjóðfélagi, auðvaldsþjóðfélaginu. En er möguleiki á því að sameina þær konur sem sjálfar eru hluti ríkjandi stéttar konum af verkalýðsstétt í raunhæfri baráttu fyrir fullu frelsi kvenna?

Einungis skilgreining á hugsunarhætti, uppeldi og efnahagslegri aðstöðu kvenna úr mismunandi stéttum getur gefið svar við þessar spurningu. Svarið mun varpa ljósi á hvaða konur er mögulegt að sameina í baráttunni fyrir sósíalismanum, sem er skilyrði fyrir frelsun kvenna. Það mun varpa ljósi á hvaða kröfur eru brýnastar fyrir konur af mismunandi stéttum og síðast en ekki síst í hvaða stétt við finnum þær konur sem verða drifkrafturinn í kvennabaráttunni.

## Konur úr borgarastétt

Flestar konur úr borgarastétt hafa náð stöðu sinni gegnum karlmann, þ.e. eignir og stöðu föður og/eða eiginmanns. Innan stéttarinnar er litið á þær sem vöru. Þær eru metnar á hjúskapar markaðnum og metið ákvarðast af eignum, ytra útliti og framkomu. Þær verða að vera vörumerki fyrir eiginmenn sína. Oft hafa þessar konur menntun sem ekki er til annars ætluð en að gera þær hæfar í menningarlegum umræðum. Þessi stétt er ríkjandi á Íslandi í dag og frá henni er runnin hin afturhaldssama skoðun á stöðu konunnar.

Konur af borgarastétt er líka kúgaðar. En um leið hafa þær ýmis hlunnindi fram yfir aðrar konur, þ.e. þær geta keypt sig lausar frá heimilisstörfum og barna pössun. En hlunnindin verða þær að gjalda með því að játast undir kúgunina og gera sér vörumerkishlutverkið að góðu. Ef þessar konur sætta sig ekki við vistina á þeim bás sem stéttarstaða þeirra hefur markað þeim, þá eru þær ekki heppilegar í það hlutverk sem þeim er ætlað og því eru þær sviptar hlunningum sínum og fleygt á dyr. Út frá skammtímasjónarmiði hafa þær meiru að tapa en vinna við það að sýna samstöðu með baráttu kvenna af öðrum stéttum. Sem einstaklingar geta þær haft áhuga á frelsun kvenna, en sem hluti borgarastéttarinnar munu þær hræðast hverja hugsun um byltingu og sósíalisma. Það er því ekki hægt að vænta stuðnings þessara kvenna nema í algerum undantekningartilfellum.

## Konur úr smáborgarastétt

Höfuðtilhneyging meðal kvenna úr smáborgarastétt er að þær falla niður í öreigastétt. Hin nýju lífsskilyrði gera það að verkum að þær sjá skýrar aðstöðu sína og þá sérstaklega stöðu sína í auðvaldsþjóðfélaginu. Þessar konur eru því mikilvægir bandamenn.

Hinsvegar eru margar þeirra, sérstaklega þær sem eru betur settar efnalega, eiga eignir og hafa aðstöðu að verja, reikular og að sumu leyti tortryggnar út í harða baráttu verkalýðsins og gagnvart byltingunni.



## Konur úr verkalýðsstétt

Konur sem tilheyra verkalýðsstéttinni eru meirihluti kvenna í landinu og það hlutfall getur aukist vegna þeirra einstaklinga innan smáborgarastéttarinnar sem við vissar kringumstæður falla niður í öreigastétt. Verk[illegible]lýðstéttin er í mestri mótsögn við au[illegible]lið og verður því að standa í fory[illegible] í baráttunni gegn því og fyri[illegible] sósíalísku byltingunni. En slík bylting er óframkvæmanleg af karlmönnum verkalýðsstéttarinnar eingöngu. Hún mun ekki heppnast ef konurnar verða ekki með í baráttunni. Konur verkalýðsstéttarinnar eru nauðsynlegar til þess að tryggja sósíalismann, jafnframt sem aðeins þær geta gefið kvenfrelsisbaráttunni rétta og raunhæfa leiðsögn í dag.

## Sundrung kynjanna skaðar alla verkalýðsstéttina

Konur eru lægra metnar og kúgaðar einnig meðal karla í verkalýðsstétt. Konur hafa oftast lítil sjálfstæð yfirráð yfir efnahag fjölskyldunnar, en hins vegar þurfa þær að taka hússtörf og barnauppeldi nær eingöngu á sínar herðar, jafnvel þótt þær vinni utan heimilis. Þessi aðstaða getur vafalaust valdið beiskju í garð karlmannsins, hjá þeim konum sem eru byrjaðar að sjá skýrar stöðu sína. En sem hluti verkalýðsstéttarinnar eru þær einnig í þeirri aðstöðu að þær geta auðveldlega séð grundvallarorsök erfiðleikanna. Það er borgarastéttin sem stétt (ekki sem karlmenn) sem býður þeim upp á lág laun og lélega atvinnu. Það er ekki karlmaðurinn sem á sökina á því að fjölskyldan á í erfiðleikum með að komast af á vinnulaununum þegar húsaleiga og fæðiskostnaður eykst. Karlmennirnir hafa einnig sömu lélegu möguleikana á menntun. Það er ríkisvald borgarastéttarinnar en ekki karlmenn úr verkalýðsstétt sem gera lítið sem ekkert í því að fullnægja dagheimilisþörfinni. Það að líta þannig á málin gerir hina tvöföldu vinnu ekki léttari og það fjarlægir ekki heldur áhrif hinna aldagömlu hugmynda sem karlmenn hafa um stöðu konunnar. En það gerir það að verkum að þetta verður ekki ríkjandi skoðun meðal þessara kvenna og það að þessvegna er lítill grundvöllur fyrir femínískar hugmyndir meðal verkakvenna.

Karlar og konur í verkalýðsstétt hafa nákvæmlega sömu hagsmuna að gæta. Verkakonur hafa því gífurlega stórt verkefni í sínum höndum semsé það að gera kynsystrum sínum og stéttarbræðrum ljóst hverjir hafa hag af því að kúga konur og vanmeta þær.

## Verkakonur í forystu kvennabaráttunnar

Fyrir utan kúgun og arðrán sem verkakonur verða fyrir sem hluti verkalýðsstéttarinnar eru þær einnig kúgaðar kynferðislega. Þær eru notaðar sem her varavinnuafls. Her sem er tekinn inn í verksmiðjurnar á uppgangstímum þegar framleiðslan er í hámarki, en er síðan rekinn burt þegar atvinnuástandið versnar. Þar sem framboð til þesskonar atvinnu er alltaf hærra en eftirspurnin, er hægt að halda konum á lágum launum og við slæm vinnuskilyrði.

Verkakonur eru þær konur sem eru mest kúgaðar að Íslandi í dag, og jafnframt eru þær meirihluti íslenskra kvenna. Öfugt við konur borgarastéttar og smáborgarastéttar hafa þær enga sjálfstæða stöðu eða einkaeign til að missa. Með karlmönnum eigin stéttar standa þær í beinni andstöðu við auðvaldið og með sósíalísku byltingunni hafa þær allt að vinna, en engu að tapa.
Verkakonur eru afskaplega mikilvægur kraftur í hinni faglegu og pólitísku baráttu gegn auðvaldinu

Frh. á bls. 3

og fyrir framkvæmd og uppbyggingu sósíalismans. Staða þeirra í þjóðfélaginu gerir þær að staðfastasta kraftinum í baráttunni fyrir fullu frelsi kvenna. Verkakonur verða því að hafa forystuna í kvennabaráttunni í dag.

## Um kvennahreyfinguna

Í raun og veru er ekki hægt að tala um kvennahreyfinguna sem samstæða heild í sögunni. Því síðan kvennahreyfing og kvenfrelsisbarátta hófst hafa verið upp ólíkar baráttuaðferðir. Þessi ágreiningur á rót sína að rekja í mismunandi stéttarafstöðu kvennanna. Auk þess að vera konur tilheyra konurnar hinum ýmsu stéttum sem hafa ólíkra hagsmuna að gæta. Stéttirnar ákvarða ekki aðeins efnahagslega aðstöðu þeirra heldur einnig hugmyndafræðilegan grundvöll fyrir afstöðu þeirra til kvennabaráttunnar. Nútíma kvennahreyfing er afsprengi hins kapítalíska þjóðfélags. Bakgrunnur þessarar kvennahreyfingar er að nokkru leyti hinar efnislegu breytingar sem kapítalískir framleiðsluhættir höfðu í för með sér. Og að hinu leytinu er það hugmyndafræðin sem hinar nýju stéttir höfðu fram að færa.

Tengsl kvennahreyfingarinnar við stjórnmálaflokka vilja oft verða þannig að konurnar séu álitnar eitthvert varaafl sem hægt sé að grípa til þegar flokkurinn þarfnast þess og leggja síðan til hliðar. Kröfur kvennanna eru þá notaðar sem skrautfjaðrir á tyllidögum eins og kosningar eru, en síðan stungið undir stól. Þetta kemur greinilega í ljós hjá þeim flokkum sem hafa sérstakar kvennadeildir.

Við megum ekki gleyma því ósamræmi sem oft ríkir í kvennahreyfingum milli stefnunnar og meðlimanna. Hreyfing sem framfylgir stefnu borgaranna í vil getur verið skipuð alþýðukonum að mestu leyti. Við megum ekki stara blint á hin ytri einkenni, heldur kynnast bæði framsæknu og femínísku hreyfingunum innanfrá.

Kvennahreyfing nútímans skiptist í grófum dráttum í þrennt, 1-yfirstéttarhreyfinguna 2-millistéttar og menntkvennahreyfinguna og 3-alþýðukvennahreyfinguna. Einnig má skipta henni eftir stefnu hvers hluta hennar í: femínista, alþýðuhreyfingu og afturhaldssömu kvennahreyfinguna.

## Afturhaldssama kvennahreyfingin

Hin íhaldssama kvennahreyfing er fyrirbæri sem íhaldsöflin setja til höfuðs hinum framsæknu kvennahreyfingum. Slíkar hreyfingar leggja oft mikla áherslu á "hið kvenlega" og muninn á kynjunum. Gott dæmi um þetta er afstaða þeirra til kvenna í atvinnulífinu, sem þjónar greinilega hagsmunum borgarastéttarinnar. Þessi öfl halda því fram að konur séu ekki eins haldnar af gróðahyggju og karlar. Þessvegna séu launin fyrir unnin störf konum lítilsvirði. Þær hafi nefnilega meðfædda þörf til þess að fórna sér. Sérstaklega eigi þetta þó við um störf sem höfði til móðurtilfinninga kvenna. Samkvæmt þessu eru ýmis störf sérlega heppileg fyrir konur, svo sem hjúkrun sem af fyrrgreindum orsökum er fremur köllun en atvinna. Annað dæmi um áhrif frá þessari hugmundafræði er góðgerðastarf kvenna, einnig er sú hugmund að konur séu friðsamari en karlar mjög í anda hennar.

## Femíníska kvennahreyfingin

Femíníska kvennahreyfingin er sprottin úr millistéttinni við þær breytingar sem kapítalískir framleiðsluhættir höfðu á stöðu millistéttarkvenna. Iðnaðurinn skapaði körlum og konum af lægri stétt en milli stéttinni atvinnu. Af þessum sökum varð hlutverk millistéttarkonunnar ekki jafn mikilvægt og áður. Út frá þessum aðstæðum er hugmyndafræði femínista sprottin. Hún er nátengd hugmyndafræði borgarastéttarinnar. Femínistar krefjast þess að konur hafi jafna aðstöðu og karlar til að láta að sér kveða í hinu borgaralega þjóðfélagi. Femínistar krefjast ekki breytinga á þjóðfélaginu á annan hátt en að konur verði gerðar jafnrétthárar. Borgarakonan skal hafa sömu réttindi og skyldur og karlmaðurinn. Henni skal ekki neitað um nokkurn rétt, en hún skal heldur engin forréttindi hafa sem kona. Þessi krafa miðar einungis að jafnri aðstöðu kynjanna til samkeppni.

Femínsiminn leggur mikið upp úr einstökum og einstaklingsbundnum aðgerðum. Einnig er meðvitund einstakra kvenna um kúgun sína mikilsverð í þeirra augum, því kvenfrelsunin sé fyrst og fremst einstaklingsbundin. Útfrá þessu eru möguleikar einstakra kvenna á að ná frama í þjóðfélaginu mjög mikilvægt atriði fyrir femínistunum.

Kvenfrelsisbaráttunni er beint gegn karlmönnunum, því að þeir eru höfuðandstæðingarnir sem í eiginhagsmunaskyni og af ótta við óþægilega samkeppni kúga konuna. Mikil áhersla er lögð á hið persónulega samband karls og konu og breytingar á því. Markmið baráttunnar er að veita konum jafna aðstöðu og körlum innan hins borgaralega þjóðfélags.

## Alþýðukvennahreyfingin

Baráttuhreyfing alþýðukvenna óx fram við hlið alþýðuhreyfingarinnar. Fyrir framsæknum alþýðukonum liggur það í augum uppi að það sem veldur kúgun konunnar í borgaralegu þjóðfélagi er þörf atvinnurekandans á að arðræna verkafólk og sífelld leit hans að ódýru vinnuafli. Það er grundvallarmunur á kvennabaráttu millistéttarkvenna og alþýðukvenna. Vandi þeirra fyrrnefndu á rætur sínar innan heimilisins þ.e. í kynferðiskúguninni, en þeirra síðarnefndu í stéttarstöðu þeirra vegna þess að kúgun verkakvenna er fyrst og fremst stéttarlegs eðlis. Gegnum stéttarbaráttuna hafa konur úr verkalýðsstétt kynnst mætti pólitískrar hreyfingar byggðri á sameiginlegri baráttu. "Frelsi, jafnrétti og bræðralag" gátu aldrei orðið aðalbaráttumál pólitísku verkalýðssamtakanna. Ástæðan er sú að samband verkalýðsins og kúgara hans er byggt á arðráni en ekki jafnrétti og því getur frjáls samkeppni fyrir verkafólk ekki leitt til annars en sundrungar þess og aukins gróða atvinnurekendanna. Verkakonur hljóta að bera fram kröfur sem eru stéttarlegs eðlis

## Framsækin kvennahreyfing

Sameiginleg barátta og samstaða eru beittustu vopnin í kvennabaráttunni. Einstaklingsbundnir sigrar eru lítils virði miðað við þá sigra sem fjöldinn vinnur. Kvennabaráttan verður að beinast gegn stéttarandstæðingnum, borgarastéttinni. Hin efnahagslegu skilyrði en ekki hugmyndafræðin eru grundvöllurinn fyrir kúgun kvenna. Hin hugmyndafræðilega kúgun er aðeins tæki til að viðhalda hinni efnahagslegu kúgun.

Markmið kvennabaráttunnar er frelsun kvenna út frá þeirra eigin grundvelli þ.e.a.s. við eigum rétt á jafnrétti en einnig tilliti til sérstöðu okkar sem kvenna. Við föllumst ekki á neina frjálsa samkeppni þar sem þær veikustu þ.á.m. meirihluti kvenna mun tapa.

## Hlutverk flokksins

Öllum félögum verður að vera ljóst að starfið á meðal kvenna er eitt af mikilvægustu störfum flokksins, því án kvenna getur ekki verið um að ræða neina raunverulega fjöldahreyfingu. Hlutverk flokksins verður að skapa fjöldahreyfingu vinnandi kvenna undir forystu kommúnista. Til þess að það verði mögulegt verður að móta raunhæfa kommúníska starfslínu í kvennabaráttunni.

Flokkurinn verður að hafa starfandi nefndir eða starfseiningar sem sjá um að virkja fjölda hinna vinnandi kvenna - koma á sambandi á milli þeirra og flokksins, virkja konur til baráttu, uppfræða þær og reka áróður á meðal þeirra Kommúnistar verða að starfa innan þeirra hreyfinga sem hafa á stefnuskrá sinni að berjast fyrir bættum kjörum kvenna í auðvalds-

Frh. á bls. 4

Tillaga að ályktun

# Um stöðu konunnar

Konur eru þjakaðar í veimegunarþjóðfélagi vorra daga á margvíslegan hátt, þrátt fyrir að þær eigi að njóta lagalegs jafnréttis.

- Formlega hafa konur t.d. sama rétt til menntunar og karlar en margar hindranir eru þó í veginum til þess að þær geti hagnýtt sér þau réttindi.

- Úti á vinnumarkaðinum er konum mismunað í starfsvali. Þær eru notaðar sem ódýrt varavinnuafl og búa við lítið atvinnuöryggi.

- Einnig mun auðvaldið alltaf halda stórum hópi kvenna frá hinn félagslegu framleiðslu og þátttöku í félagsmálum og stjórnmálalífi við einhæf heimilisstörf og fjárhagslega háðar mönnum sínum.

Þátttaka kvenna í samfélagslegri framleiðslu er nauðsynlegt skilyrði fyrir frelsi konunnar. Launavinnan gerir konur fjárhagslega sjálfstæðar. En til þess að gera konunni þetta kleift verða að vera fyrir hendi skilyrði til að stunda hana.

Jafnrétti kynjanna ætti að vera sjálfsögð mannréttindi.

Þess vegna hljótum við að setja fram þessar kröfur konum til handa:

1. Næga atvinnu fyrir konur.
2. Lífvænleg laun fyrir dagvinnu.
3. Fullt jafnrétti kvenna til starfs og launa.
4. Konum verði gert fært að taka fullan þátt í atvinnulífinu.
5. 3. mán. fæðingarorlof á fullum launum.
6. Nægar og ókeypis dagvistunarstofnanir fyrir bö[illegible].
7. Raunhæfa kauptryggingu fyrir konur í fiskiðnaði.

Ljóst er að orsaka kúgunarinnar á konum er að leita í auðvaldsþjóðfélaginu, þar sem minnihluti kúgar meirihlutann og þess vegna verður að berjast fyrir afnámi þess. Sú stétt sem er í skarpastri andstöðu við auðvaldið í dag er verkalýðsstéttin. Hún hlýtur því óhjákvæmilega að vera forystuaflið gegn auðvaldinu í baráttunni fyrir sósíalísku byltingunni. En hin sósíalíska bylting er óframkvæmanleg af karlmönnum verkalýðsstéttarinnar eingöngu. Hún mun ekki sigra ef konurnar verða ekki með í baráttunni.

Konur skiptast í stéttir rétt eins og karlmenn og bæði efnahagsleg og hugmyndafræðileg afstaða þeirra mótast af stéttarstöðunni. Ljóst er að verkakonurnar eru þær konur sem kúgaðastar eru á Íslandi í dag og jafnframt að þær eru meirihluti íslenskra kvenna. Öfugt við konur borgarastéttar og smáborgarastéttar hafa þær enga sjálfstæða stöðu eða einkaeign að missa. Sem hluti verkalýðsstéttarinnar eru þær í þeirri aðstöðu að geta séð grundvallarorsök kúgunarinnar. Það er borgarastéttin sem stétt (ekki sem karlmenn) sem býður þeim upp á lág laun og lélega atvinnu. Og það er ekki karlmaðurinn sem á sökina á því að fjölskyldan á í erfiðleikum með að komast af með vinnulaunin, þegar húsaleiga og fæðiskostnaður eykst. Karlar og konur úr verkalýðsstétt hafa nákvæmlega sömu hagsmuna að gæta. Verkakonur hafa því gífurlega stórt verkefni í sínum höndum, sem er að gera kynsystrum sínum sem og stéttarbræðrum ljóst, hverjir hafa hag af því að kúga konur og vanmeta þær.

Verkakonur eru afskaplega mikilvægur kraftur í hinni faglegu og pólitísku baráttu gegn auðvaldinu og fyrir framkvæmd og uppbyggingu sósíalismans. Staða þeirra í þjóðfélaginu gerir þær að staðfastasta kraftinum í baráttunni fyrir fullu frelsi kvenna. Verkakonur verða því að hafa forystuna í kvenfrelsisbaráttunni í dag.

Kvennabaráttan verður að beinast gegn stéttarandstæðingnum, borgarastéttinni, því að það eru hin efnahagslegu skilyrði en ekki hugmyndafræðin sem eru grundvöllurinn fyrir kúgun á konum.

Sameiginleg barátta og samstaða eru beittustu vopnin í kvennabaráttunni. Einstaklingsbundnir sigrar eru lítils virði miðað við þá sigra sem fjöldinn vinnur.

KSML styður baráttu íslenskra kvenna fyrir fullum pólítískum, efnalegum og félagslegum réttindum. Baráttuna verður að heyja gegn auðvaldinu og ríkisvaldi þess, sem er höfuðóvinur íslenskra kvenna. Baráttuna verður að byggja á samstöðu alþýðunnar allrar, karla og kvenna.

# Tillaga að ályktun um alþjóðamál

Alþjóðaástandið einkennist í dag fyrst og fremst af frelsisbaráttu nýlendnanna, sigrum alþýðu þriðja heimsins í baráttu þeirra gegn heims valdastefnunni, bæði á vígvellinum og á sviði alþjóðastjórnmála og hins vegar æ meiri togstreitu milli heims valdalandanna og þó sér í lagi stórveldanna en um leið makki þeirra um áhrifasvæði og yfirráð í sókn þeirra eftir heimsyfirráðum. Risaveldin eiga í baráttu sín á milli um allan heim. Þegar annað risaveldið lendir í erfiðleikum með áhrifasvæði sitt reynir hitt að smeygja sér inn og auka áhrif sín. Þessi þróun mun leiða til styrjaldar milli þessara aðila. Öryggisráðstefna Evrópu breytir engu hér um frekar en annað samningamakk risaveldanna um áhrifasvæði enda eru þeir samningar í engu bindandi fyrir aðildarríkin og má túlka flesta hluta þeirra eins og hver vill. Hið svokallaða valdajafnvægi er aðeins tímabundið gerviástand. Hin villta samkeppni og bráðæðislega hervæðing hlýtur fyrr eða síðar að leiða til heimsstyrjaldar. Baráttunni til stuðnings frelsishreyfingum hinna kúguðu þjóða og þjóðarbrota hlýtur því að fylgja baráttan gegn íhlutun og áhrifum risaveldanna.

Evrópa er nú sem fyrr miðpunktur baráttu risaveldanna, fyrst og fremst vegna hins þróaða markaðar, auðlinda og hins tæknimenntaða vinnukrafts. Heimsvaldastefnan stendur nú frammi fyrir dýpkandi kreppu sem grípur um sig á æ fleiri sviðum. Stór hluti hinnar gífurlegu fjárfestingar Bandaríkjanna erlendis er í Evrópu og Sovétríkin reyna að notfæra sér hina dýpkandi kreppu í Evrópu til að ná auknum pólitískum og efnahagslegum ítökum. Gegn þessu hljóta marxistar-lenínistar og öll íslensk alþýða að berjast. Þess vegna berjumst við gegn hvers konar hernaðarbrölti risaveldanna í Evrópu og um allan heim, hvort sem það er í formi beinna aðgerða eða hótana. Þess vegna berjumst við gegn hvers konar áhrifum Sovétríkjanna og eða Bandaríkjanna, hvort heldur er pólitískum eða efnahagslegum. Þess vegna styðjum við jafnvel hina minnstu viðleitni Efnahagsbandalags Evrópu til að draga úr áhrifum risaveldanna í Evrópu, enda er sjálfsforræði evrópuríkja ógnað og sumra stórkostlega skert af yfirgangi risaveldanna og baráttan gegn risaveldunum í Evrópu er jafnframt stuðningur við baráttu kúgaðra gegn heimsvaldastefnunni annars staðar í heiminum.

Ríkjum þriðja heimsins, undir öruggri leiðsögn kínverja hefur tekist að nýta sér möguleika stofnana Sameinuðu þjóðanna til þess að afhjúpa eðli heimsvaldaríkjanna og þá ekki hvað síst risaveldanna og með því hvatt til og stutt við bak frelsishreyfinga allra kúgaðra þjóða og þjóðarbrota.

Afturhaldsstjórnir Formósu, S-Afríku og Ísrael, svo eitthvað sé nefnt hafa verið yfttar fyrir glæpaverk sín og jafnvel reknar úr Sameinuðu þjóðunum. Á meðan standa endurskoðunarsinnarnir í Sovétríkjunum í samningamakki við Bandaríkin um skiptingu áhrifa- og umráðasvæða svo sem varðandi málefni evrópuríkja og palestínuaraba, um umráðarétt yfir heimshöfunum, og eiga jafnvel í samningamakki um leið og samkeppni um geiminn og reikistjörnur.

Við styðjum af alhug frelsishreyfingar nýlendnanna og baráttu þriðja heimsins gegn heimsvaldastefnunni, þá baráttu sem átt hefur hvað mestan þátt í því að alþýða heimsins hefur vaknað til vitundar um viðbjóð heimsvaldastefnunnar og snúist til baráttu gegn henni og ofbeldi risaveldanna, en vörum jafnframt við því að slakað sé á árvekni gagnvart risaveldunum, íhlutun þeirra og stríðsundirbúningi, þrátt fyrir söng þeirra um afvopnun og friðvænlegra ástand. Verum minnug þess, að Hitler og böðlar hans undirrituðu fjöldann allan af friðarsamningum á meðan þeir undirbjuggu innrásarheri sína.

-/JJ

Rauða stjarnan hefur nú til sölu nýtt ritgerða og ræðusafn eftir Jósef Stalín í enskri úgáfu. "On the opposition" (Um andstöðuna) er úrval úr verkum Stalíns árin 1921 til 1927. Af lestri bókarinnar öðlast menn mjög góða innsýn í þróun sovéska bolsévikkaflokksins á einu örlagaríkasta tímabili hans, þriðja áratugnum. Ennfremur gefur bókin yfirlit yfir innanflokksbaráttuna og baráttuna gegn trotskismanum.

Í bókinni eru m.a. eftirtaldar greinar: Trotskimi eða lenínismi; Októberbyltingin og bardagaaðferðir rússneskra kommúnista; Hin sósíal demókratísku frávik í flokki vorum; Byltingin í Kína og hlutverk Komintern; Trotskistaandstaðan fyrr og nú.

Bókin er 990 bls. að stærð og verðið er aðeins 400 krónur. Hægt er að panta hana hjá bókabúðinni Rauðu stjörnunni, Reykjavík, Box 1357.

FRAMH. AF SÍÐU 3

# Um stöðu konunnar

þjóðfélaginu. Það verður að vera hlutverk okkar að reyna að leiða baráttuna inn á rétta braut - benda á að vandamál kvenna eru í órjúfanlegum tengslum við vandamál allrar öreigastéttarinnar. Einnig verðum við að berjast gegn öllum hugmyndum og skoðunum sem skaða eða sundra samstöðu verkalýðsstéttarinnar.

Kommúníska kvennahreyfingin verður að vera fjöldahreyfing, hluti hinnar almennu fjöldahreyfingar - ekki aðeins öreigalýðsins heldur allra arðrændra og kúgaðra sem eru fórnardýr auðvaldsskipulagsins.

# Bréf frá miðstjórn KSML

Með síðasta eintaki Verkalýðsblaðsins birtist Opið bréf til KSML. Í bréfi þessu eru lagðar fram tillögur til samstarfs milli EIKm-l og KSML í flestum baráttumálum og ennfremur að komið verði á fót viðræðum milli fulltrúa samtakanna um ágreiningsefni, fræðilegs eðlis.

Miðstjórn KSML fagnar þessum tillögum opna bréfsins, þar sem þær eru mjög í anda þeirrar samstarfsáætlunar er KSML lagði fram í september 1975. Í samstarfsáætlun KSML voru þrjár samstarfstillögur: a) að samstarf í baráttumálum hæfist, b) að umræður um og barátta gegn hvers kyns endurskoðunarstefnu, trotskisma og hentistefnu færu fram í málgögnum beggja samtakanna og c) að skipuð yrði sameiginleg nefnd til að ræða fræðileg ágreiningsefni, annast tillögu stefnuskrár og reglugerðar og undirbúa sameiginlegt þing til að stofna Kommúnistaflokk. Sem kunnugt er hafnaði EIKm-l þessum tillögum þá að undanskilinni baráttueiningu, en nú hafa samtökin lýst yfir vilja sínum til að taka starfið að sameiningu upp aftur. Verkalýðsstéttin þarfnast einingar og marxismans-lenínismans og þess vegna er það skylda marxista-lenínista, hvar í samtökum sem þeir standa, að vinna óhikað að einingu og samstarfi byltingaraflanna og ástunda gagnrýni og sjálfsgagnrýni til að vera á varðbergi gagnvart endurskoðunarstefnu og hentistefnu. Aðhæfing marxismans-lenínismans að íslenskum aðstæðum krefst þess að óvægin barátta sé háð gegn hvers kyns endurskoðunarstefnu og hentistefnu. Verkalýðurinn hefur hagsmuni af einingu marxista-lenínista og marxistar-lenínistar geta ekki haft neina aðra hagsmuni en hagsmuni verkalýðsstéttarinnar.

Miðstjórn KSML leggur á það áherslu, að umræðufundir samtakanna tveggja verði ekki árangurslitlir þrætufundir og að höfuðþunginn verði ekki lagður á ágreiningsatriðin, heldur þau atriði sem samtökin eru sammála um. Við væntum þess, að niðurstaða fundanna verði sameiginleg baráttuyfirlýsing beggja samtakanna, sem innihaldi sameiginlega afstöðu þeirra til flestra vandamála íslensku byltingarinnar.

Ágreiningsatriðin sem um er talað í Opna bréfinu eru öll taktísk eða fræðileg. Skilgreining öreigastéttarinnar er verkefni sem ekki krefst tveggja eða fleiri samtaka marxista-lenínista, það er sameiginlegt verkefni marxísku-lenínísku hreyfingarinnar og skoðanabarátta um þetta atriði getur hæglega farið fram innan eins og sama flokks. Um afstöðuna til samfylkingarmála og erlendrar stóriðju, teljum við að þar greini ekki eins mikið á og látið er af í Opna bréfinu, en allt eru þetta spurningar sem varða taktík marxista-lenínista og því eðlilegt að innan eins og sama flokks kæmi til skoðanabaráttu og fræðilegra umræðna um slík atriði. Miðstjórn KSML telur mikilvægast að sameinast um grundvallaratriði marxismans-lenínismans og lenínískt skipulag flokksins. Á þeim grundvelli verður sameiningarbaráttan að vera háð.

LIFI BARÁTTAN FYRIR KOMMÚNISTAFLOKKI ÍSLANDS/ML!

Miðstjórn KSML

# Athugasemd um umhverfismál

Í ályktuna vantar gersamlega útlistun á því, hvernig kommúnistar eigi að snúast til baráttu fyrir náttúruvernd og á hvaða grundvelli, þ.e. það vantar starfslínu.

1. Athuga verður, að þau þrjú meginsvið, sem tekin eru upp í greinargerð og ályktunartillögu ING, fiskistofnar, afréttir og mengun af völdum stóriðju, er ekki hægt að nefna í einni og sömu andránni. "Náttúran" er nefnilega ekki fyrst og fremst skemmtistaður fyrir bæjarbúa og náttúruvernd ekki til að viðhalda sveitasælu og útnagarómantík þurrabúðarmanna iðnaðarþjóðfélags ins. Því er náttúruvernd í hag alþýðunni, að hún gerir mögulegt að nýta auðlindir náttúrunnar án þess að jafnvægi jurta- og dýraríkisins raskist með þeim afleiðingum að öll keðjan hrynji saman og verði engum til gagns.

2. Þetta hagnýtingarsjónarmið verður að hafa ríkt í huga, því það tengir baráttuna fyrir náttúruvernd við önnur hagsmunamál alþýðunnar. Það tengir fiskverndun við hagsmuni sjómanna og fiskvekunarfólks og veldur því að útfærsla fiskveiðilögsögunnar, bundin baráttu gegn innlendri sem erlendri rányrkju, er hagsmunabarátta íslensk alþýðufólks. Það tengir baráttuna gegn ofbeit á afréttum við hagsmuni smá bænda og meðalbænda auk verkafólks í matvæla- og ullariðnaði og til hennar verður að hvetja og hefja í stefnuskrá og starfi flokksins í bændamálinu. Og sömuleiðis tengir það baráttu gegn stóriðjumengun við hagsmuni iðnaðarverkafólks og allrar alþýðu raunar, auk baráttu gegn erlendri stóriðju, þar sem stóriðjumengun er geysilega afkastamikil við deyðingu lífs í lofti, láði og legi.

3. Þetta hagnýtingarsjónarmið stefnir sömuleiðis gegn sókn auðvaldsins í hámarks- og stundargróða, meginorsök þess, að yfirleitt er þörf á því að ræða um náttúruvernd. Á þetta er réttilega bent í ályktunartillögunni.

4. Þetta leiðir til þess, að a) heyja verður baráttuna fyrir náttúruvernd á grundvelli hagsmuna alþýðunnar og hagnýtingarsjónarmiðsins en ekki náttúrurómantíkur, b) heyja verður baráttuna í nánum tengslum við almenna baráttu fyrir hagsmunum alþýðunnar, - fiskverndun í tengslum við landhelgismálið og hagsmuni sjómanna og fiskverkunarfólks, rétta nýtingu afrétta í tengslum við hagsmuni smábænda og meðalbænda og andóf gegn mengun í tengslum við baráttu iðnaðarverkafólks og í tengslum við baráttu gegn erlendri stóriðju (þótt þar megi að sjálfsögðu náttúruverndarsjónarmiðið aldrei verða of an á), c) heyja verður baráttuna sem baráttu gegn auðvaldsþjóðfélag inu, sem baráttu gegn arðráni manns á manni, gegn gróðahagsmunum auðvaldsins fyrir lífshagsmunum alþýðunnar.

Breiðholtssella 1.

## Námshringur KSML

1. Kommúnistaávarpið (Marx/Engels Úrvalsrit I)
2. Díalektíska og sögulega efnishyggjan (Stalín, bæklingur KSML) Um starfið og Hvaðan koma réttar hugmyndir (Maó, Úrv. rit I, III)
3. Grundvöllur pólitísku hagfræðinnar (Fjölr. bæklingur KSML)
4. Um ríkið og byltinguna (Lenín, Ríki og bylting)
5. Um flokkinn (Lenín/Stalín, bæklingur KSML)
6. Pólitík KSML (Rauði Fáninn nr. 1 '72 frá stofnþingi KSML og Ályktanir 1. ráðstefnu KSML).

## Umræður fyrir II. þing KSML

# Alþýðumenning

hann vill efla er gagnbyltingarsinnuð einmitt vegna þess að hún nær ekki til almennings, hún hefur nær engin áhrif á þróun samfélagsins, og það er inntak hennar sem veldur því. Þessa fullyrðingu verður nú að rökstyðja.
Höfundur greinarinnar sér atferlið, sköpun byltingarsinnaðrar listar, á þessa leið: "(Listamaðurinn) ... rýfur einangrun listarinnar, finnur sjálfan sig sem einstakling meðal einstaklinga í fjöldanum. Hann lætur tilfinningar og skynsemi leika saman, tengir drauma og veruleika saman, hann gerir listagildið og notagildið að einni heild, er hvort tveggja í senn trúr listinni og byltingunni af því að hvort tveggja er í þágu mannsins."

Hér úir og grúir af frumspekilegum jafnvel dulspekilegum hugtökum, sem eru þó öll runnin af einni rót: höfundurinn vill vera "trúr listinni"!

Orðið "listin" virðist hér tákna einhvern æðri sannleik, óháðan vilja og mati manna, óstéttbundna yfirnáttúrulega tilveru sem menn keppa að. Hin marxíska afstaða er að list í þessari merkingu er ekki til. Listaverk eru til: sum þeirra eru listaverk drottnandi stétta á hverjum tíma; sum þeirra eru listaverk kúgaðra stétta. Sum eru íhaldssöm að inntaki, þar sem þau lofa og fegra það þjóðfélagsástand sem þau spretta upp úr; sum eru byltingarsinnuð að inntaki, þar sem þau leitast við að kollvarpa og byggja upp á ný. Sum verk lýsa náttúrunni án tengsla við mannkynið - listamaðurinn telur sig óhlutdrægan, en hefur í rauninni sætt sig við óbreytt ástand - er þess vegna gagnbyltingarsinnaður. Sum listaverk eru afvegaleiðandi, lýsa hugsunarferli sem á ekkert sammerkt með ástandinu í heiminum, lokkar okkur frá áþreifanlegum vandamálum veruleikans og eru þannig einnig gagnbyltingarsinnuð.

Öll þessi verk teljast til listar. Sum þeirra eru e.t.v. mögnuð og hrífandi listaverk, og getur byltingarsinnaður listamaður lært margt af þeirri fagkunnáttu sem liggur að baki þeim. En vill höfundur greinarinnar vera "trúr" þeim öllum? Ef svo er, er hann gagnbyltingarsinni. Ef ekki, hefur hann búið til eitthvert æðra tákn, dulspekilegt hugtak í líkingu við "sál" kristninnar eða "taó" konfúsíanismans - nafn á hlut sem er ekki til.

Það er ekki að furða þótt þetta hljómi ankannalega í eyrum hinnar vinnandi alþýðu, sem að yfirgnæfandi meirihluta veit af biturri reynslu hvað er til og hvað er draumsýn. Einmitt þessari afstöðu til "listarinnar" sem æðri sannleiks er skilyrðislaust hafnað jafnt af hinni vinnandi alþýðu sem af hinum vísindalega marxisma.

Þessi ranga afstaða til starfs listamanna hefur óhjákvæmilega í för með sér ranga afstöðu til alþýðunnar og til baráttu hennar í dag. Til að vera trúr "listinni" þarf listamaður að hafa "köllun" - ekki til að vinna í þágu alþýðunnar, heldur til að þjóna "listinni". Ef til vill er þetta útskýring smáborgaralegra listamanna á því fyrirbæri sem Maó lýsir með þessum orðum: "Þeir listamenn, sem upprunnir eru í smáborgarastétt, eru óþreytandi í að reyna að láta ljós sitt skína." (Ritg. I, bls. 177). - Afleiðingarnar eru augljósar. Listamönnum finnst þeir hafnir yfir alþýðuna; í stað þess að gagnrýna auðvaldið hættir þeim til að gagnrýna alþýðuna fyrir lágkúruhátt og þrælslund, og ávíta hana fyrir að rísa ekki upp sem einn maður og afneita eyðslu, neyslu og mengun. Þetta er röng aðferð. Verkalýðurinn í dag þarf engar skammir, heldur leiðsögn og uppörvun í stéttabaráttunni.

En margur íslenskur listamaður sem tekur þessa röngu afstöðu býr yfir verulegum hæfileikum og brennur af hatri til auðvaldsþjóðfélagsins og ást fyrir hugsjónum kommúnismans. Það verður að leitast við að veita þessum listamönnum leiðbeiningar í marxískum fræðum með vinsamlegri, hnitmiðaðri gagnrýni, og virkja þá í baráttunni. Byltingarsinnaðir listamenn á Íslandi í dag verða að gera sér ljóst, að án ástar á alþýðunni, samstöðu með henni og fullkomins trausts til skynsemi hennar og reynslu geta þeir hvorki höfðað til hennar né unnið í hennar þágu.

AFHJÚPUM EÐLI AUÐVALDSMENNINGARINNAR.

ENGIN BYLTINGARSINNUÐ LIST ÁN SAMSTÖÐU MEÐ HINNI VINNANDI ALÞÝÐU.

ENGIN BYLTINGARSINNUÐ LIST ÁN BYLTINGARSINNAÐRAR FRÆÐIKENNINGAR.





Frh. af forsíðu

# Gegn nýlendukúgun dana

dönsku auðmagni og nú síðast hefur danska ríkið gefið 22 auðfélögum leyfi til að hagnýta sér olíu, er fundist hefur á grænlensku landgrunni. Grænlendingar sjálfir eru hins vegar ekki spurðir álits.

Með þátttöku sinni í Nató og veru bandarísks herliðs á Grænlandi er alþýðan á Grænlandi háð heimsvaldastefnu USA. Grænland er ofurselt skilmálum efnahagsbandalagsþjóðanna með veru Danmerkur í EBE. Einnig í þessu tilliti eru óskir grænlendinga sjálfra virtar að vettugi, því 80% þeirra greiddu atkvæði gegn aðild að EBE í þjóðaratkvæðagreiðslu. Landsþing grænlendinga og sjómenn á Grænlandi hafa krafist 100 mílna fiskveiðilögsögu, sem dönsk yfirráðastétt hefur ekki ljáð máls á.

En kúgun leiðir óhjákvæmilega af sér mótstöðu. Grænlensk alþýða er að vakna til meðvitundar um eigin mátt og nauðsyn skipulagðrar baráttu. Í sjálfstæðisbaráttu grænlendinga hefur á undanförnum árum Ráð ungra grænlendinga, sem skipað er grænslenskum menntamönnum í Danmörku, verið framsýnasta aflið í þeirri baráttu. Það er okkar skylda að styðja baráttu grænlendinga fyrir fullum sjálfsákvörðunarrétti og aðskilnaði við Danmörk. Það verður best gert með stofnun íslenskrar Grænlandsnefndar, sem hefur að markmiði alhliða stuðning við frelsisbaráttu þeirra og á grundvelli þeirra baráttuaðferða, því enginn getur þekkt Grænland betur en grænlendingar sjálfir.

-/Straumsvíkursella

## Tillaga að ályktun
# Gegn nýlendukúgun dana

Grænland og Færeyjar eru ofurseldar danskri nýlendukúgun. Þetta birtist í nær algerum efnahagslegum yfirráðum danska einokunaauðvaldsins í þessum löndum, samhliða pólitískum völdum.

Borgarastétt Danmerkur hefur hagnýtt sér auðlindir þessara landa til að auka eigin gróða á kostnað alþýðunnar í þessum löndum. Þannig hefur þróast nær einhliða atvinnulíf í Færeyjum, þar sem Danmörk þarfnast fiskhráefna sérstaklega og á Grænlandi hefur átt sér stað gífurleg menningarleg og félagsleg röskun þar sem fólk er neytt til að flytja búferlum og vinnuaflinu þjappað saman eftir hentugleikum dönsku nýlendukúgaranna. Vegna aðildar Danmerkur að EBE og NATO er tilverugrundvelli Grænlands og Færeyja beinlínis ógnað.

Af þessum sökum hljótum við að styðja réttláta baráttu alþýðunnar í þessum löndum fyrir fullu sjálfstæði og aðskilnaði við danska ríkið. Slík barátta verður best studd með stofnun hreyfingar, sem hefur að markmiði alhliða stuðning við þjóðfrelsisbaráttu færeyinga og grænlendinga á þeim grundvelli, sem þeir leggja sjálfir til.

-/Straumsvíkursella

# Alþýðumenning og hlutverk byltingarsinnaðra listamanna

Íslensk menning er í dag menning borgarastéttarinnar. Til marks um þetta viljum við nefna eftirfarandi einkenni.

Alþjóðlegt eðli hennar samsvarar alþjóðlegu eðli auðvaldsins. Þetta þýðir í reynd að hún er að mestu leyti innflutt. Yfirgnæfandi meirihluti sjónvarps og bíómynda eru frá auðvaldslöndum, og túlka sjónarmiða borgara og smáborgara þessara landa. Ríkjandi tónlist nútímans á Íslandi, "popp"-tónlist, er nær eingöngu erlend eða erlend að uppruna og formi. Mikill hluti innlendra lagatexta er á ensku. Sú myndlist sem hefur náð mestri útbreiðslu í landinu eru erlendar eftirprentandir og skrautmunir, þar sem listrænt gildi frummyndanna takmarkast af gróðasjónarmiði. Erlend afþreyingarrit og auglýsingar þeirra hafa gífurleg mótandi áhrif á íslenska menningu.

Innlendir fjölmiðlar túlka nær eingöngu sjónarmið fjandstétta verkalýðsstéttarinnar. Erlendur fréttaflutningur þeirra er að mestu tugginn hrár upp úr hinum alþjóðlegu auðvaldsfréttastofum, og innlendar fréttir þeirra eru óvilhallar verkalýðsstéttinni. Auglýsingar þeirra bera sömu megineinkenni og þær erlendu.

Stór hluti íslenskra listamanna, skálda og rithöfunda vinnur nær eingöngu innan þessa ramma, styður þannig og eflir hina borgaralegu menningu. Verk þeirra eru óraunsæ, þeir forðast félagslegan ágreining eða taka beinlínis afstöðu með valdastéttinni. Verk þeirra seljast yfirleitt vel.
Sú menning sem íslenska þjóðfélagið býr við um þessar mundir ber þess því ljósan vott, að borgarastéttin er við völd. Sjónarmið og þarfir verkalýðsstéttarinnar fá þar lítinn hljómgrunn.

Að mestu utan þessara megin menningarstrauma stendur þó talsverður hópur listamanna, skálda, rithöfunda o.s.frv., sem þrátt fyrir töluverða virkni hafa lítil áhrif á meginstraum hinnar borgaralegu menningar. Ber hér mest á listamönnum, skáldum og rithöfundum úr smáborgarastétt, menntamönnum smáborgarastéttar og millihópa. Listframleiðsla þessara manna er yfirleitt verkalýðnum framandi og torskiljanleg, og kemur engan veginn til móts við þarfir hans. Hann hafnar list þessara manna; og þar sem lítil sem engin listframleiðsla á sér stað meðal verkalýðsins sjálfs fær menningararfur borgarastéttarinnar greiðan aðgang að tómstundum hans.

Í fáum orðum: íslenskur verkalýður er ofurseldur menningu sem er honum framandi, og að því leyti til forheimskandi, að hann tekur engan þátt í mótun hennar. Hér er ekki um að ræða lifandi arfleifð, skapaða af meirihluta þjóðarinnar (alþýðunni) handa henni sjálfri, heldur ómennskt, en virkt valdatæki hins drottnandi minnihluta til að styrkja núverandi þjóðskipulag, þ.e.a.s. til að viðhalda valdi sínu.

Þessari menningu setjum við okkur að kollvarpa og útrýma. Það er ekki nóg að ætla svo, að þar sem hún byggist á tilvist auðvaldsþjóðfélagsins muni hún hverfa þegar auðvaldið er sigrað af verkalýðsstéttinni. Hin sósíalíska bylting, valdataka verkalýðsins, er aðeins einn áfangi á löngum þróunarferli þjóðfélagsins í átt til kommúnisma. Auðvaldsmenningu verður ekki útrýmt með valdatöku verkalýðsins einni; en með stofnun verkalýðsríkis skapast fyrst aðstæður til að kveða niður hina borgaralegu menningararfleifð, efla alþýðumenningu, og leggja grundvöll að menningu þess þjóðfélags sem er okkar lokatakmark.

Eftirfarandi spurningar vakna:

1. Þjónar það virkum tilgangi fyrir baráttu okkar núna, að reyna að gera okkur grein fyrir menningareinkennum þess þjóðfélags sem er lokatakmark okkar, hins stéttlausa kommúníska þjóðfélags framtíðarinnar? Og ef svo er, hver eru þessi einkenni?

2. Hvernig verður sú menning sem tekur við fyrst eftir valdatöku verkalýðsins?

3. Hvert er hlutverk byltingarsinnaðra listamanna við núverandi aðstæður?

Byltingarsinnaður kommúnistaflokkur hefur forystuhlutverki að gegna við valdatöku verkalýðsins og í uppbyggingu verkalýðsríkisins. Flokkurinn tekur ávallt mið af lokatakmarkinu, afnámi stéttaþjóðfélagsins, þó að þetta takmark kunni að vera í óralangri fjarlægð, og margir krókar á leiðinni.

Menningarmál eru ekki mikilvægust í þessari baráttu; en án fullkominnar stjórnar og skilnings á menningarmálum verður engum lokasigri náð. Ef til vill erum við ófær um að segja nákvæmlega fyrir um menningu þess þjóðfélags sem við stefnum að. En grófir drættir hennar hljóta að vera okkur ljósir. Við getum brugðið upp mynd af lifandi alþýðulist, þar sem alþýðan fær þá menntun sem hún þarf til þess að geta ljáð hugsunum og óskum sínu listrænt form, þar sem listamenn eru sérfræðingar og leiðbeinendur í þeirri listsköpun sem alþýðunni er töm, taka forystu í því starfi að skrásetja reynslu hennar og vitund, og reyna um leið að uppfylla hinar listrænu þarfir hennar. Þeir eru alþýðumenn og sækja efni og orku til alþýðunnar sjálfrar.

Þessi mynd tilheyrir fjarlægri framtíð. Annað er hlutverk listamanna í því sögulega tímabili sem tekur við eftir sósíalíska byltingu, tímabili verkalýðsríkisins.

Í uppbyggingunni eftir að verkalýðurinn hefur tekið völdin er hann að leita að sjálfum sér, uppgötva sína eigin vitund og getu jafnt í listum og bókmenntum sem á sviði samfélagsþróunar; en hann þarf leiðsögn, hann þarf kennslu í hinum díalektísku aðferðum marxismans, og hann þarf gagnrýni. Hann þarf að geta séð sjálfan sig eins og í spegli og fá þannig yfirsýn yfir gerðir sínar. Þetta geta rithöfundar og leiklistarmenn til dæmis gefið honum. En til þess þurfa þessir listamenn að skilja fræðikenningar marxismans; hina díalektísku efnishyggju, út í ystu æsar, og jafnframt að vera gagnkunnugir alþýðunni, að taka þátt í kjörum hennar og lífsstarfi, að vera alþýðumenn.

En hvert er hlutverk byltingarsinnaðra listamanna á Íslandi í dag, í auðvaldsþjóðfélagi? Þeir eiga í baráttu við menningarþætti sem láta hærra en þeir sjálfir; við hlið þeirra starfa listamenn sem eru andvígir hugsjónum þeirra. Hlutverk þeirra er þess vegna að afhjúpa þetta þjóðfélag: að gera verkalýðsstéttinni ljóst eðli þess og stöðu hennar í því. Þeir verða að vera færir um að gagnrýna þetta þjóðfélag með díalektískum aðferðum marxismans og sýna fram á hinar byltingarsinnuðu leiðir til úrbóta.

Til þess verða þeir að fá stuðning og leiðbeiningu hins kommúníska flokks. Flokkurinn verður að greiða götu þeirra af fremsta megni, og standa fyrir námskeiðum og kynningu á byltingarsinnaðri list. En flokkurinn verður einnig að stuðla að því, að byltingarsinnaðir listamenn fái skólun í hinum marxísku fræðum, og vera á varðbergi gagnvart öllum gagnbyltingarsinnuðum skoðunum sem kunna að hreiðra um sig meðal vinstrisinnaðra listamanna. Einnig verður flokkurinn að halda uppi óvæginni gagnrýni á alla gagnbyltingarsinnaða list, og verður þessi gagnrýni

# Umræður fyrir II. þing KSML

að vera tvenns konar: Í fyrsta lagi að afhjúpa fyrir alþýðunni hve óraunhæf og blekkjandi slík list er; og í öðru lagi að freista þess að leiða listamenn á réttar brautir.

Hér er átt við þá allmörgu vinstrisinnuðu listamenn, rithöfunda, leiklistarmenn o.s.frv., gjarnan menntamenn úr smáborgarastétt og millihópum, sem gera sér meira eða minna ljóst eðli þessa þjóðfélags og telja sig gjarnan kommúnista og byltingarsinna. Gott dæmi um þetta birtist í 12. tbl. Neista 1975, í grein sem nefnist "Við stefnum að frjálsri fullveðja list", og er ekki úr vegi að athuga þessa grein nánar hér.

Höfundurinn gerir sæmilega grein fyrir eðli hinnar drottnandi menningar í dag, sem hann kallar "það borgaralega menningarhrat", en niðurstöður hans eru villandi, mengaðar af hughyggju og rómantík, sem telja má dæmigerða fyrir íslenska listamenn í dag. Hann harmar það að "listamenn ná ekki til almennings", en gerir sér ekki grein fyrir því, að sú "list" sem

## Tillaga að ályktun

# Alþýðumenning

Íslensk menning í dag er menning borgarastéttarinnar. Íslenskar listir og bókmenntir eru í dag eitt af valdatækjum borgarastéttarinnar

Þessari menningu setjum við okkur að kollvarpa og útrýma og leggja drög að alþýðumenningu framtíðarinnar, menningu hins kommúníska þjóðfélags. Þessi áætlun er nauðsynlegur liður í hinni sósíalísku byltingu verkalýðsstéttarinnar.

Hlutverk byltingarsinnaðra listamanna á þessu stigi baráttunnar, stigi auðvaldsskipulagsins, er að afhjúpa eðli borgaramenningar og sýna fram á hina byltingarsinnuðu leið verkalýðsins til hins nýja þjóðfélags, með marxisma-lenínisma hugsunum Maó Tsetung að leiðarljósi.

Til að vera færir um að taka að sér þetta hlutverk verða byltingarsinnaðir listamenn

1) að hafa hina byltingarsinnuðu fræðikenningu á valdi sínu, að skilja stéttareðli listarinnar, að vera færir um að læra af fagkunnáttu undangenginna listamanna af öllum stéttum.

2) að bera hag verkalýðsins og hinnar vinnandi alþýðu fyrir brjósti, að sýna alþýðunni fullkomna samstöðu, að vera tilbúnir til að læra af henni, reynslu hennar og skynsemi. Til þess þurfa listamenn okkar að kosta kapps um að losa sig við smáborgaralegar hugmyndir um æðri stöðu lista og listamanna í þjóðfélaginu, og fylgja kjörorðinu: listamenn þjóni verkalýðnum og hinni vinnandi alþýðu.

Hlutverk flokksins í þessari baráttu er að halda uppi harðri gagnrýni á allri gagnbyltingarsinnaðri list, að efla byltingarsinnaða list og styðja útbreiðslu hennar, og að vera á varðbergi gagnvart smáborgaralegum gagnbyltingarsinnuðum hugmyndum sem kunna að gera vart við sig meðal listamanna okkar.

- Hin úrkynjaða list borgarastéttarinnar víki fyrir hinni byltingarsinnuðu list verkalýðsstéttarinnar.

- Listin þjóni hagsmunum verkalýðsins og hinnar vinnandi alþýðu.

- Lifi alþýðulist!

m/p

# Um afstöðuna í landhelgismálinu

Afstaða KSML í landhelgismálinu hefur alla tíð frá stofnun samtakanna verið óljós og lítt mótuð. Þrátt fyrir það að landhelgismálið hafi verið í brennipunkti flest öll starfsár KSML, þá hefur gætt þeirrar afstöðu að málið komi okkur ekki við. Í kaflanum um landhelgismálið í Ályktunum 1. ráðstefnu KSML er gerð tilraun til að koma fram með afstöðu sem er þó í öllum grundvallaratriðum röng. Þar er reynt á yfirborðskenndan hátt að sýna fram á að við getum ekki stutt útfærslu fiskveiðilögsögunnar, "aðeins viðurkennt rétt íslensku þjóðarinnar til landgrunnsins."

Smáríki heimsins í dag eiga í vök að verjast gagnvart uppivöðslusemi og vígbúnaðarkapphlaupi risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, og hlýtur því að vera mikilvægt að við berjumst með kjafti og klóm fyrir eflingu og varðveislu sjálfsákvörðunarréttar smáríkja.

Í ályktunum 1. ráðst. KSML er gerð mjög hæpin tilraun til að láta afstöðu kínverja til útfærslunnar falla saman við afstöðu ráðstefnunnar: "Kínverskir kommúnistar hafa lýst yfir stuðningi við landhelgisútfærsluna, út frá hinum fimm grundvallaratriðum um friðsamlega sambúð þjóða. Það táknar ekki að þeir viðurkenni rétt íslensku borgaranna til að einoka hráefnalindir, eða arðræna íslenskan verkalýð, heldur er það eingöngu viðurkenning á sjálfsforræði þjóðarinnar til að ráða vídd lögsögu sinnar. Hjá okkur íslenskum kommúnistunum horfir málið öðruvísi við. Við getum ekki veitt landhelgisútfærslunni stuðning án þess að brjóta gegn alþjóðahyggju öreiganna." Afstaða kínverja er augljós, þ.e. tryggja verður sjálfsákvörðunarréttinn gagnvart vígbúnaðarkapphlaupi risaveldanna og yfirráð smáríkja yfir auðlindum sínum.

Afstaða KSML á þessum tíma var alröng og ber tilvitnunin hér að ofan merki um fáránleik og einangrunarstefnu af þeim sökum. Ef við viðurkennum rétt íslensku þjóðarinnar til að ráða höfunum umhverfis landið, þá hljótum við jafnframt að styðja útfærsluna í 50 og 200 mílur þar sem ástandið í heiminum krefst þess af okkur.

Hafsvæðið sem við útfærsluna kemst undir íslenska lögsögu er mjög mikilvægt fyrir heimsvaldasinna úr vestri og austri og hrópa því bæði Sovétríkin og Bandaríkin um "skert siglingafrelsi."

Það eitt ætti að sanna okkur það að útfærslan þjónar andheimsvaldasinnuðum tilgangi.

Vissulega er útfærsla fiskveiðilögsögunnar gerð að forgöngu einokunarauðvaldsins (t.d. SÍS og SH), en þrátt fyrir það er útfærslan sem slík liður í baráttu fyrir eflingu sjálfsákvörðunarréttarins. Að sjálfsögðu er skrefið með útfærslu fiskveiðilögsögunnar ekki stigið til fulls fyrr en siglingalögsagan hefur einnig verið færð út. Á þann hátt skerðum við "frelsi" risaveldanna í vígbúnaðarkapphlaupinu, siglingar her- og njósnaskipa og heræfingar. Og vegna þess að útfærslan er gerð að forgöngu einokunarauðvaldsins, þá getum við fastlega gert ráð fyrir því að skellt verði skollaeyrum við kröfum um fiskivernd, þar sem gróðasókn útgerðarauðvaldsins miðast á engan hátt við skynsamlega nýtingu fiskistofnanna.

Í ályktunum 1. ráðstefnu KSML segir, "að friðun og skynsamleg nýting auðlinda sé óframkvæmanleg í auðvaldsþjóðfélagi." Þetta er ekki rétt. Ef það tækist að koma í veg fyrir það að braskað verði með fiskimiðin og Íslendingar sætu einir að miðunum, þá er stigið skref fram á við til skynsamlegrar nýt-

Framhald á bls. 8

## Umræður fyrir II. þing KSML

# Tillaga að ályktun um Landhelgismálið

Þrátt fyrir það að fiskveiðilögsagan sé í daglegu tali nefnd landhelgi, þá er þetta tvennt ólíkt á nokkurn hátt. Landhelgin er mjög víðtækt hugtak sem nær yfir t.d. fiskveiði-mengunar- og siglingalögsögu. Íslenska siglingalögsagan er 4 mílur en fiskveiðilögsagan er nú orðin 200 mílur.

Fiskveiðilögsagan er færð út í 200 mílur aðallega að kröfu einokunarauðvaldsins og gefur því mikil tækifæri til að sitja eitt að íslensku fiskimiðunum, einnig gefur útfærslan einokunarauðvaldinu stórkostleg tækifæri á að braska með fiskimiðin. Fiskimiðin eru gjaldmiðill sem það mun nota í eltingaleik sínum um markaði erlendis.

Enda þótt fiskveiðilögsagan hafi verið færð út með gróðasjónarmið fyrir augum, þá er rétt að styðja útfærsluna, þar sem hún er stórt skref fram á við til tryggingar sjálfsákvörðunarrétti íslensku þjóðarinnar. Hún er því einn þáttur í baráttu smáþjóða fyrir treystingu og varðveislu sjálfsákvörðunarréttarins, sem risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin, ráðast í sífellu gegn. Einnig er það mikilvægt að berjast fyrir því að ekki verði við það látið sitja að færa út fiskveiðilögsöguna. Þó svo að hún sé skref í rétta átt, þá verður að færa einnig út siglingalögsöguna. Þannig gætum við stöðvað her- og njósnaskipasiglingar risaveldanna um höfin í kringum Ísland ásamt því að banna allar heræfingar á svæðinu.

Baráttan fyrir 200 mílna siglingalögsögu er því nátengd baráttunni fyrir brottför bandaríska hersins og úrsögn Íslands úr NATO.

Skýrslur fiskifræðinga hafa sýnt ljóslega að eyðing fiskistofnanna við strendur Íslands sé á næsta leyti ef ekki verður hætt þeirri rányrkju sem nú er stunduð. Íslenska einokunarauðvaldið mun ekki hætta henni að svo komnu máli, því þeirra markmið er skammtímasjónarmiðið; sem mestan gróða á sem stystum tíma. Rányrkjan verður því ekki stöðvuð á annan hátt en þann að vekja almenning til skilnings á nauðsyn þess að henni verði hætt, og til baráttu gegn einokunarauðvaldinu fyrir friðun fiskistofnanna.

-Akureyrardeild KSML

# Gagnrýni á ályktunartillögu GA um NATO og herstöðvarnar

"Hvert einstakt kjörorð verður að draga af heildarmynd sérstakra drátta ákveðins pólitísks ástands" (Lenín: Coll. W. b. 25, bls. 183 - mín undirstr. óhs).

Undirritaður er þeirra skoðunar að síðasti hluti ályktunartillögu G.A. um NATO og herstöðvarnar dragi ekki fram þessa heildarmynd, einkum hvað snertir kjörorðið, sem varpað er fram: Ísland fyrir íslenskan verkalýð. Kaflinn og kjörorðið dregur þvert á móti upp mjög einhliða mynd af því pólitíska ástandi, sem ríkjandi er með tilliti til spurningarinnar um sjálfsákvörðunarréttinn.

Tillagan tengir á réttan hátt spurninguna um vörn sjálfsákvörðunarréttarins við baráttuna gegn risaveldunum og heimsvaldastefnunni og ráða má af henni, að eina stéttin sem getur tekið upp þessa baráttu og leitt hana til fullra lykta sé verkalýðsstéttin (undirritaður leggur þót til nokkru skýrar orðalag í þessum kafla - sjá lok greinarinnar). En tillagan kveður ekki á um, að verkalýðsstéttin er í dag alls ekki meðvituð um þessa hæfileika sína, hann er síður en svo tilbúinn til að taka upp baráttu á grundvelli stéttarhagsmuna sinna. Hún leggur auk heldur á engan hátt upp, og það er mikilvægara, hvernig eigi að bregðast við þessu ákveðna, pólitíska ástandi, sem ríkir innan raða verkalýðsins. Hún endar aðeins á frómri ósk um að verkalýðurinn verði að taka upp þessa baráttu. Það er nefnilega svo, að þorri verkalýðsins, utan tiltölulega lítils brots, er borgaralega sinnaður, stendur pólitískt séð á grundvelli borgarastéttarinnar og hagsmuna hennar, en ekki á grundvelli og hagsmunum síns sjálfs. Miðað við þetta ástand verður vígorðið "Ísland fyrir íslenskan verkalýð" jafngilt því að krefjast þess að Ísland verði fyrir borgaralega sinnaðan íslenskan verkalýð. Þannig er það erki-afturhaldssamt, stefnir á engan hátt fram á við, vegna þess að í dag skortir verkalýðinn svo til öll þau meðul á fjöldamælikvarða, sem þarf til að hrinda því í framkvæmd, að landið verði raunverulega fyrir verkalýð og erfiðismenn þess.

Nei, það sem skiptir höfuðmáli í dag er að sameina verkalýðinn á grundvelli stéttarhagsmuna hans. Það verður ekki gert á grundvelli einhverra óskýrgreindra markmiða, heldur á grundvelli ákveðinna baráttumála, sem stéttin öll hefur hag af og stéttin getur sameinast um á þann hátt að skref sé stigið til lausnar á stjórnlistarlegum vandamálum íslensku byltingarinnar. Með tilliti til baráttunnar gegn NATO og herstöðvunum er eina langsýna kjörorðið, sem við getum lagt fram, og kveður skýrt á um baráttumálið, sameinar verkalýðinn á grundvelli stéttarhagsmuna hans en ekki hagsmuna borgarastéttarinnar og býr hann undir sósíalísku byltinguna, kjörorð sem hvetur til baráttu um vörn sjálfsákvörðunarréttarins og sjálfstæðisins gagnvart risaveldunum og heimsvaldastefnunni. Ef við viljum hafa það stutt og laggott þá... "Verjum sjálfsákvörðunarréttinn."

Íslenska borgarastéttin sækist eftir hámarksgróða og er reiðubúin að fórna sjálfstæði þjóðarinnar í því markmiði. Það hefur sagan sýnt fram á. Eina stéttin sem getur tekið þann fána upp og borið fram til sigurs er verkalýðsstéttin. Hún er eina stéttin sem getur gert sjálfsákvörðunarréttinn að rétti allrar þjóðarinnar en ekki rétti fámennrar yfirstéttar. Og nú á tímum þegar risaveldin ógna þjóðum allra landa með stríðsfyrirætlunum sínum og á meðan íslenskur verkalýður er svo sundraður sem raun ber vitni, þá verðum við að ala hann upp í fyrstu lotu í baráttu fyrir vörn sjálfsákvörðunarréttarins og sjálfstæðisins gagnvart risaveldunum og heimsvaldastefnunni. Að leiða þá baráttu til fullra lykta er barátta sem krefst byltingarhugs verkalýðsins, er barátta fyrir sósíalískri byltingu og alræði öreiganna. En það er verkefni sem verður að vera ávöxtur af hinu fyrra. Einnig hefur undirritaður megnustu andstyggð á hugtakinu "smáþjóð" í pólitískri brúkun. Það má ekki gleyma því að t.d. gagnvart Indlandi þá er Bretland "smáþjóð". Ísland er minniháttar heimsvaldaland, og yfirráðastefna risaveldanna beinist að vissu marki gegn minniháttar heimsvaldalöndum, einkum þjóðum Evrópu og Kanada. Þannig hefur undirritaður tvær breytingartillögur við ályktunartillöguna:

1. Legg til að 2. málsgrein 2. kafla ályktunartillögunnar hljóði svo: "Heimsvaldastefna þeirra beinist gegn ríkjum sósíalismans, kúguðum löndum og nýlendum og minniháttar heimsvaldalöndum."

2. Legg auk þess til að 3. kaflanum verði öllum breytt til samræmis við:

"VERJUM SJÁLFSÁKVÖRÐUNARRÉTTINN!

Baráttan gegn risaveldunum er á Íslandi í fyrstu hönd barátta gegn USA-heimsvaldastefnunni. En hún verður jafnframt að beinast gegn stríðsfyrirætlunum og drottnunaráformum Sovétríkjanna og annarra afturhaldsríkja, því þessi barátta er barátta þjóðar í minniháttar heimsvaldalandi fyrir varðveislu sjálfsákvörðunarréttar og sjálfstæðis síns gagnvart risaveldunum báðum og yfirgangsstefnu þeirra. Eina raunverulega aflið, sem getur leitt hana og borið hana fram til sigurs er íslensk verkalýðsstétt. Brýnasta verkefni allra marxista-lenínista á Íslandi í dag er því að vinna að því að verkalýðsstéttin sameinist undir kjörorðum þessarar baráttu.

-/Ómar Harðarson

---

UM AFSTÖÐUNA TIL LANDHELGISMÁLSINS

Framhald af bls. 7

ingar, þar sem minni floti veiddi á miðunum. Berjast verður því af hörku fyrir því að engir undanþágusamningar verði gerðir við erlendar þjóðir.

Ef ég ætlaði mér að taka fyrir kaflann um landhelgismálið úr Ályktunum 1. ráðstefnu KSML, þá yrði ég að taka fyrir nær hverja einustu setningu í honum, því hann er í öllum grundvallaratriðum alrangur og stórhættulegur ef einhver skyldi álpast til að taka mark á honum. (Sama má reyndar segja um stóran hluta þessa bæklings).

Afstaða KSML í landhelgismálinu hefur verið ljósasta dæmið um það hvernig "vinstri"hentistefnan leiðir menn á villigötur og til einangrunar.

Uppgjörið við þessa "vinstri"hentistefnu mun á sama hátt lýsa sér í gjörbreyttri afstöðu KSML til landhelgismálsins.

Þó svo við séum á verði gagnvart hægrihentistefnunni, þá má það aldrei verða vörn fyrir "vinstri"-hentistefnu.

-/GM

# Stéttabaráttan upplýsir

# Hvað er að gerast í Angóla?

Það er margt að gerast í Angóla og það eru margar skoðanir upp varðandi þýðingu þeirra atburða. Innan vinstri hreyfingarinnar, hérlendis sem erlendis eru deilur um afstöðuna til atburðanna. Þær deilur orsakast fyrst og fremst af því að í Angóla berjast þrjár hreyfingar, sem allar nefna sig frelsishreyfingar. Ennfremur er hlutur Sovétríkjanna í deilunum orsök þess að margir and-heimsvaldasinnar eiga erfitt að átta sig á atburðunum. Þeir eiga erfitt með að trúa því að Sovétríkin komi fram eins og hvert annað heimsvaldaríki. Sovétríkin og trotskistar hafa reynt að beina umræðunni í að snúast um meintan stuðning Kína við eina hreyfinguna (FNLA). En þær tilraunir hafa aðeins þann tilgang að fela aðgerðir sósíalheimsvaldasinnanna, aðgerðir sem eingöngu miða að því að ná fótfestu í Angóla.

Fæðing Angóla sem sjálfstæðs ríkis gengur erfiðlega, ástandið þar minnir á ástandið í Kongó, þegar belgísku heimsvaldasinnarnir þóttust ætla að gefa því sjálfstæði. Í Kongó áttust við annars vegar hin ýmsu heimsvaldaríki (USA, Belgía) með sínum meðhlaupurum og hins vegar þjóðleg sjálfstæðishreyfing með róttæka stefnu. Foringi þessarar frelsishreyfingar, Lumumba, var myrtur að undirlagi CIA, eins og menn muna og hreyfingin var barin niður. Ástæður þess að heimsveldin vildu ekki sleppa takinu á Kongó voru fyrst og fremst þær að í landinu eru mikil náttúruauðæfi - það sama er nú uppi á teningnum varðandi Angóla. Landið er geysiríkt frá náttúrunnar hendi og heimsvaldasinnar sá sundrungu og átökum milli þeirra hreyfinga sem hafa yfirlýst frelsi landsins að markmiði. Sú eining sem náðst hafði milli MPLA, FNLA og UNITA í baráttunni gegn portúgölsku nýlenduherrunum og seinna þegar myndað var bráðabirgðastjórn með aðild allra hreyfinganna, er nú fyrir bí. Í landinu geysar grimm borgarastyrjöld og hreyfingarnar sem áður höfðu aðeins yfirráð yfir minniháttar vopnum, hafa nú í sínum fórum stórvirkar stríðsvélar sem heimsveldin láta þeim í té. Þessi staðreynd varpar skýru ljósi á ástandið í dag og rætur þeirra bardaga sem nú geysa.

**Hverjir græða á sundrungunni?**

Á þeim tíma þegar frelsisöflin áttu í höggi við portúgalska nýlenduherinn var vopnabúnaður þeirra af skornum skammti fram an af, og hann miðaður við þarfir frelsisstríðsins, frumskógahernaðarins. Portúgalski herinn var studdur af NATO, fyrst og fremst Bandaríkjunum. Hann hafði yfir að ráða nýtísku þotum, þyrlum og skriðdrekum svipað og her USA í Víetnam. Nú er portúgalski herinn farinn með sín vopn - þá gerist það einkennilega, að frelsishreyfingarnar hafa úr nægum vopnum að velja, fullkomnum vopnum og stórvirkum. Það eru þau öfl sem telja sig græða á sundrungu angólabúa sem nú eru svo örlát á nýtískuleg vopn. Það eru risaveldin tvo, Sovétríkin og Bandaríkin sem eiga hér stærstan hlut að máli - það eru þau sem reyna að tryggja sér ítök með því að nýta sér þær deilur sem hafa staðið á milli hreyfinganna þriggja.

**Orsakir deilnanna**

Þegar fasisminn féll í Portúgal var augljóst að ekkert gæti hindrað að Angóla öðlaðist sjálfstæði svo framarlega sem frelsishreyfingarnar þrjár gætu sameinast um ákveðinn grundvöll. Með s.k. Algrave-samkomulagi sem allar hreyfingarnar stóðu að þ. 15. janúar s.l. var komið á bráðabirgðastjórn með fullu jafnræði þeirra. Embætti formanns stjórnarinnar var í höndum hreyfinganna til skiptis.

En strax í febrúar byrjaði einingin að bresta. Ágústínó Neto, formaður MPLA, lýsti því yfir að Zaire áætlaði innrás í landið (sem enn hefur ekki gerst). Samtímis hóf MPLA baráttu fyrir alþýðuvöldum, alþýðan á yfirráðasvæðum MPLA var skipulögð í nefndir til þess að yfirtaka stjórnunina, aðallega í Luanda. FNLA og UNITA litu svo á að með þessu væri MPLA að reyna að koma á fót eigin stjórn þessum mikilvægu borgum. MPLA lagði til að kosningar í þessar nefndir skyldu gerast með sameiginlegu framboði allra hreyfinganna, en FNLA og UNITA litu svo á að þesshàttar fyrirkomu-

Framhald á bls. 10




Kortið (Úr Newsweek) sýnir stöðu herjanna eins og hún er í dag. Örinn sýnir sókn UNITA: Myndin sýnir forystumenn hreyfinganna þriggja á samningafundi. Frá vinstri Angostino Neto (MPLA) Holden Roberto (FNLA) og Jonas Savimbi (UNITA).



# Sovétstjórnin dreifir lygum

Í fréttaflutningnum um ástandið í Angóla hefur aftur og aftur verið sagt að Kína styddi aðeins eina af frelsishreyfingunum þremur, þ.e. FNLA. Þessa "frétt" hefur útvarpið, sjónvarpið og öll dagblöðin flutt aftur og aftur. Einnig hafa duglegustu áróðursmenn Moskvu hérlendis, trotskistarnir í Fylkingunni verið óþreytandi í útbreiðslu þessarar "fréttar." Nýjasta dæmið er úr Þjóðviljanum þ. 13. nóv. s.l., þar segir: "Einingarsamtök Afríku (OAU) sem reyndu að fá MPLA til að deila völdunum með hinum angólsku sjálfstæðishreyfingunum tveimur, FNLA og UNITA,... þær hreyfingar njóta stuðnings vesturlanda, Zaire og Suður-Afríku og að sögn einnig Kína." (Þjv. 13. nóv. bls. 16). Málgagn Fylkingarinnar, Neisti, segir: "Af þessum sökum hefur Peking-skrifræðið stutt UNITA og síðan FNLA, þessar hreyfingar hafa jú báðar fordæmt Sovétstjórnina" (9. tbl, bls. 8).
En fara þessir aðilar með rétt mál?
Skýra þeir rétt frá afstöðu Kína í angólamálinu? Svarið er nei.

Eins og lesendum Stéttabaráttunnar er kunnugt (sjá 9. og 10. tbl. 1975), þá er afstaða kínverja að veita öllum frelsishreyfingunum allan mögulegan stuðning. Og sá stuðningur hefur ætíð miðast við ástandið í landinu, þ.e. hvers eðlis baráttan hefur verið. Markmiðið hefur aldrei verið að sölsa undir sig auðlindir Angóla, heldur hefur aðstoðin verið skilyrðislaus og ætíð miðast við að styðja þjóðina til sjálfstæðis. Chiao Kuan-hua, formaður sendinefndar Kína á 30. þingi Sameinuðu þjóðanna skýrði frá afstöðu kínverja til baráttunnar í Angóla: "Allt frá byrjun hefur Kína veitt stuðning sinn til þjóðfrelsishreyfingarinnar í Angóla. Við veittum öllum angólsku frelsishreyfingunum þremur hernaðaraðstoð til þess að hjálpa þeim í baráttunni gegn portúgölsku nýlendustefnunni. Þar sem okkur var ljós mismunur þeirra, þá hvöttum við þær til að sameinast gegn óvininum. Þegar samkomulagið um sjálfstæði náðist á milli angólsku frelsishreyfinganna og Portúgal, þá hættum við að veita angólsku hreyfingunum þermur ný vopn. Þetta eru staðreyndir málsins, og staðreyndir eru mælskari en orð. Óhróður Sovétríkjanna gegn Kína getur engan veginn hulið sannleikann. Í staðinn verður hann til þess að afhjúpa raunverulegt eðli Sovétríkjanna" (Þýtt úr "News from China", gefið út af kínverska sendiráðinu í Reykjavík.) Hér er skýrt frá meginstaðreyndum um afstöðu Kína í málinu: A) Kína hefur stutt baráttuna gegn portúgölsku nýlendustefnunni frá upphafi. B) Kína hefur á allan hátt stutt sameiningarviðleitnina milli hreyfinganna. C) Kína hætti að senda vopn þegar baráttunni gegn portúgalska hernum lauk, og þar með ekki blandað sér í innri deilur hreyfinganna með vopnasendingum eins og Sovétríkin og Bandaríkin hafa gert. Síðasta atriðið sem Chiao Kuan-hua nefnir er einnig mikilvægt, þ.e. að það eru Sovétríkin sem staðið hafa að baki lygaáróðrinum um astöðu Kína í þessu máli. Tilgangur þeirra hefur verið sá að blasa upp moldviðri til þess að fela sín eigin afskipti.

Framhald af bls. 9

# Hvað er að

lag væri MPLA í hag og höfnuðu því.

23. mars var ráðist á nokkra fylgismenn MPLA fyrir utan skráningarskrifstofu í Luanda. Að öllum líkindum var það FNL A sem stóð að baki þessari árás - sem kostaði um 50 fallna. 29. apríl eyðilagði MPLA skrifstofu FNLA í Luanda og hertók bækistöð þeirra í hverfinu Sao Paulo. Næstu daga jukust hernaðarátökin og um 700 féllu. Um þetta leyti liggur það ljóst fyrir að margir innan MFA (herjahreyfingarinnar) í Portúgal, styðja MPLA. Holden Roberto (foringi FNLA) ákærir portúgala fyrir að stunda stríðsæsingar.

Eftir þessi átök næst að nýju samkomulag milli hreyfinganna þriggja í borginn Nakuru. Þetta vopnahlé varir til 9. júlí. Eins og komið hefur fram þá var vopnahléð mjög tæpt og því auðvelt að koma því fyrir kattarnef - og það var einmitt við þessar aðstæður sem Sovétríkin létu til skarar skríða. Þau hófu stór felldar vopnasendingar til MPLA, og fréttastofan TASS byrjar áróður um að MPLA sé hin eina sanna hreyfing fyrir frelsun Angóla. Tilgangurinn var augljóslega að sá sundrungu.

Hernaðarátökin hófust nú á nýjan leik og nú var herstyrkur MPLA miklu meiri en hinna hreyfinganna. FNLA er nú rekið út úr Luanda. Átökin breiðast út um allt landið. MPLA notfærir sér hernaðaryfirburði sína til þess að tryggja stöðu sína í mörgum borgum og bæjum. Sérstaklega miðuðust aðgerðirnar að því aðná borgunum við ströndina og þannig að hindra aðflutninga til hinna hreyfinganna. Það er við þessar aðstæður að UNITA tekur sér stöðu við hlið FNLA. Liðsmenn UNITA voru að mestu leyti óvopnaðir um þessar mundir. Þegar hér er komið sögu hefjast vopna sendingar til FNLA og UNITA frá Bandaríkjunum og Frakklandi í stórum stíl. Í miðjum október tekst þeim að stöðva sókn MPLA og snúa vörn upp í sókn. FNLA tekst m.a. að ná aftur borginni Caxito sem er mjög mikilvæg miðstöð, ennfremur hertóku þeir borgina Quifandongo, og þar með réðu þeir vatnsbirgðum Luandborgar. UNITA/ FNLA hafa síðan sótt á og tekið æ fleiri bæi og borgir. Eftir síðustu fréttum að dæma hefur nokkuð dregið úr sókn þeirra og landið er nú skipt í tiltölulega skýrt afmörkuð svæði.

Án efa er MPLA sú hreyfing sem hefur framsæknustu markmiðin á stefnu sinni. En samt sem áður hvílir sú skylda á hreyfingunni að gera nauðsynlega málamiðlun við hinar tvær hreyfingarnar í þeim tilgangi að ná einingu og þjóðlegu sjálfstæði. Stríðið sem nú geysar hefur fært óvinum angólsku þjóðarinnar óteljandi tækifæri til þess að ná fótfestu í landinu. Allar hreyfingarnar eiga sér fylgi meðal alþýðu landsins og allar hafa þær barist gegn nýlendustefnu portúgala. Framtíðarskipulag Angóla er mál angósku þjóðarinnar einnar að ákveða - en til þess að svo verði er nauðsynlegt að öðlast þjóðlegt sjálf stæði. En í dag virðist langt í land að því marki.

Aðalheimild Gnistan 7-13. nóv 1975. -/hh

# Seinustu atburðir

Í Luanda lýsti MPLA yfir stofnun Alþýðulýðveldisins Angóla. FNLA og UNITA hafa lýst yfir ríkisstofnun í Nova Lisboa (sem nú heitir Ovambu). Baráttan snýst nú um það að ná eins stórum svæðum undir sig eins og mögulegt er. FNL A hefur lýst því yfir, að eyðing MPLA sé eina lausnin, en UNITA virðist hafa þá afstöðu að enn sé unnt að semja milli hreyfinganna. Sovétríkin hafa aukið stórlega vopnasendingar til MPLA og vopnin verða sífellt fullkomnari. Samkvæmt heimildum í Luanda eru nú sovéskir flugmenn og skriðdrekastjórar komnir þangað. Þeir hafa ásamt sovéskum hernaðarráðgjöfum gengið í lið með kúbönsku hermönnunum sem einnig eru í landinu. Að sögn eru þeir um 2-3000. Jorge Sangumba, einn af leiðtogum UNITA, telur að um 400 sovéskir tæknimenn séu í Luanda. Sovétríkin láta nú MPLA í té fullkomnustu orrustuþotur, þ.á.m. MIG 21. Sovét notar bækistöð sína í Guinea-Conary til þessara flutninga. Einn hluti hergagnasendinganna eru langdrægar 144 mm fallbyssur.

FNLA fær sín vopn frá USA og Frakklandi og hermenn frá Zaire taka þátt í notkun þeirra. Hvítir ráðgjafar aðstoða herforingja FN LA. Þess er að vænta að USA auki enn frekar afskipti sín af málinu. Fordstjórnin hefur æskt þess að öldungadeildin samþykki umsókn um að tífalda núverandi hernaðaraðstoð til Zaire.

UNITA fær einnig vopn frá USA og Frakklandi og jafnvel S-Afríku. Jonas Savimbi, foringi hreyfingarinnar, lýsti því yfir í viðtali við Svenska Dagbladet (17. nóv.), að hvítir málaliðar séu í her hans:

"Ég þar mannskap sem kann að nota skriðdreka í stríði. Við getum það ekki sjálfir. Kannski eru þeir frá Suður-Afríku eða Rhódesíu, en flestir eru þó franskir. Málaliðar sem börðust í Biafra eru hér. MPLA hefur rússana sín megin, því neyðumst við til þess að ná í menn sem eru jafnokar þeirra."

Einingarsamtök Afríku, OAU, ráðstefna utanríkisráðherra hlutlausu landanna og Kína ásamt mörgum fleiri ríkjum hafa án árangurs skorað á frelsishreyfingarnar í Angóla að sameinast og verja sjálfstæði þjóðarinnar sem er nú í seilingarfjarlægð eftir 14 ára baráttu gegn portúgölsku nýlenduherrunum. En þessar tilraunir þeirra hafa verið hindraðar, fyrst og fremst hafa Sovétríkin verið þar að verki. Idi Amin, sem nú er forseti Einingarsamtaka afríkuríkja sagði í ræðu þ. 9. október: "Þið hafið heyrt að MPLA, FNL A og UNITA berjist hvort gegn öðru. Þessi barátta er ekki barátta fyrir sjálfstæði landsins. Þetta er stríð milli þriggja aðila, og foringi hvers aðila fyrir sig vill verða forseti. Þar af leiðandi getum við ekki skoðað þetta sem frelsisstríð. Þetta er viðbjóðsleg styrjöld sem á sér stað sökum valdagræðgi einstaklinga." Einingarsamtökin (OAU) hafa skorað á aðildalönd samtakanna að viðurkenna ekki neina af hreyfingunum í Angóla sem lýstu yfir sjálfstæði landsins. Þessi afstaða er í samræmi við stefnu OAU og andheimsvaldasinnaða stöðu afrískrar alþýðu og ennfremur angólskri alþýðu í hag.

Og hver urðu viðbrögð sovétstjórnarinnar við þessu? Jú, hún sendi Idi Amin skilaboð þar sem því var lýst yfir að sovétstjórnin ætlaði að viðurkenna stjórn MPLA sem hinn eina fulltrúa fyrir angólsku þjóðina. Einnig var þess krafist að Amin tæki sömu afstöðu. Uganda hefur keypt vopn frá Sovétríkjunum - nú hugðist sovétstjórnin heimta fyrstu afborgun fyrir þau með því að Uganda lagaði sig að stefnu Sovét. Idi Amin stóðst þessa kúgunartilraun og sleit stjórnmálasambandinu við Sovétríkin. Nú er þess að vænta að sovétstjórnin reyni að þvinga aðrar afríkuþjóðir til þess að taka upp sömu afstöðu gagnvart MPLA. Hvaða þvingunaraðferðir hún notar, er eftir að sjá.

-/hh

# Bandamenn heimsvaldastefnunnar

Í deilunum um Angóla hefur afstaða Fylkingarinnar verið skýr - trotskistarnir hafa eindregið stutt þann málstað sem sósíalheimsvaldasinnarnir standa fyrir. Fylkingin hefur á sama hátt og heimsvaldasinnarnir í Bandaríkjunum og Sovét reynt að "spá í" deilurnar innan Angóla - og niðurstaðan er auðvitað sú að þeir veðja á eina hreyfingu umfram aðra. Sameining angólsku þjóðarinnar og eining gegn erlendri ásælni er einskis virði í augum trotskista - fyrst og fremst er það þröngur sjóndeildarhringur Fylkingarinnar sem er lagður til grundvllar en alls ekki hagsmunir kúgaðrar þjóðar sem berst fyrir frelsi sínu. Í Neista segir: "Byltingarsinnaðir marxistar (en svo kjósa trotskistar að kalla sig/innsk. hh) hljóta að ljá þeim öflum í Angóla, sem stefna að stofnun verkalýðsríkis þar, stuðning sinn. Sem stendur er engin öflug og skipulögð stjórnmálahreyfing í Angóla, sem vinnur markvisst að sósíalískri byltingu. Meðan svo er verður við að styðja þá hreyfingu, sem stutt hefur byltingarsinnað framtak verkamanna og alþýðusveitanna, þ. e. MPLA" (9. tbl. '75).

Stofnun verkalýðsríkis og sósíalísk bylting er tæplega á dagskrá í landi þar sem mjög lítill hluti þjóðarinnar er verkalýður og flestar forsendur sósíalismans skortir. En Fylkingin bregður upp leitarljósi sínu og finnur smá glætu, þe. stuðning MPLA við byltingarsinnað framtak verkamanna. En Fylkingin er ekki fullkomlega ánægð með MPLA: "Þó svo að MPLA hafi verið tvístígandi og tekið þátt í margvíslegri sambræðslu við FNLA og UNITA og portúgalsstjórn..." Hér kemur það skýrt fram sem Fylkingin hefur að leiðarljósi, hún snýst gegn samvinnu hreyfinganna, FYLKINGIN VILL BORGARASTYRJÖLD Í ANGÓLA. Hún hefur sama hátt á og gagnbyltingarsinnarnir í USA og Sovét, veðjar á eina hreyfingu og vonar að henni takist að útrýma hinum.

Þegar öllum sönnum and-heimsvaldasinnum er ljóst að það er sam eining kúguðu þjóðanna gegn yfirráðum og ofbeldi heimsvaldasinnanna sem er forsenda árangursríkrar frelsisbaráttu, þá aflhjúpar Fylkingin sig sem talsmann heimsvaldasinna. Það er augljóst að það er sundrungin meðal angólabúa sem gerir Sovét, Bandaríkjunum og S-Afríku kleyft að ota sínum tota og ásælast auðlindir landsins. Allir sannir and-heimsvaldasinnar hljóta að hafa það sem höfuð atriði að þjóðin sameinist.

En trotskistar eru trúir eðli sínu. Í Neista segja þeir: "Baráttan snýst ekki um sjálfstæði eður ei, heldur um það hverskyns sjálfstæðið verði." Það hlýtur að vera hverjum heilvita manni ljóst að mál ið snýst einmitt um "sjálfstæði eður ei". Angóla getur aðeins orðið sjálfstætt land ef þjóðin sameinast og snýst þar með gegn þeim öflum sem hafa blandað sér í innanríkismál landsins.

Það er augljóst að margskonar öfl eru innan frelsishreyfinganna, það endurspeglar ástandið í þjóðfélaginu. En það er málefni angólabúa sjálfra að jafna sín eigin deilumál, og til þess að svo geti orðið þá verður að útrýma erlendum ítökum. Aðeins samstaða þjóðarinnar er þess megnug - þó svo að sú samstaða hafi sínar veiku hliðar. Trotskistar um allan heim hafa í þessu máli sem og svo mörgum öðrum gerst hlaupasnatar fyrir nýju keisarana í Kreml - með gervibyltingarslagorðum sínum um sósíalisma í Angóla vinna þeir að undirokun landsins. Þótt orðaglamur trotskista hafi vinstrisinnað yfirbragð - þá er innihald þess í rauninni afturhaldinu í hag, þeir vinna gegn sjálfstæði angólabúa.

-/hh

Afskipti risaveldanna USA og Sovétríkjanna af innanlandsmálum Angóla hafa vakið gremju mjög víða. Margar afríkuþjóðir, sem sjálfar hafa haft kynni af nýlendustefnu, hafa mótmælt kröftulega þessum afskiptum. Við birtum hér nokkur dæmi um skoðanir sem fram hafa komið.

ZAMBÍA

Blaðið "Times of Zambia" fordæmir risaveldin vegna íhlutunar í Angóla og tilraun til að sundra því. Blaðið segir "Hvað myndu rússar og amerikanar gera ef svartir hernaðarráðgjafar, með nýtísku vopn sín, réðust inn á svæði í einhverju ríki Bandaríkjanna eða Sovétríkjanna þar sem pólitísk deila ætti sér stað á milli pólitískra hópa? Hver yrðu viðbrögðin þegar ráðgjafarnir réðust inn á þetta vandræðasvæði til þess að styðja eina eða aðra af þessu pólitísku hópum?" Blaðið heldur áfram og varpar fram þeirri spurningu: hvernig stendur á því að annað af stórveldunum fylgir fram sundrungs línu í málefnum Angóla?

Blaðið heldur áfram: "sú aðferð að hvetja einn hluta af frelsishreyfingunni til að mynda ríkisstjórn eitt sér og með útilokun annarra, ríkisstjórn sem stórveldið getur viðurkennt, sú aðferð er örugg leið til að vinna að sundrun Angóla og mun draga á langinn bræðravígin" "þessi íhlutun getur orðið óþolandi fyrir Afríku".

GHANA

Blaðið "Pioneer", sem bendir á löngun Sovétríkjanna til þess að grafa undan einingu frelsishreyfinganna í Angóla, sagði í leiðara 6. nóv. "að það byggi auðsjáanlega meira að baki deilunum í Angóla en virðist fyrstu sýn".

# Um faglegu baráttuna

Í dag er pólitísk og fagleg vitund verkalýðsstéttarinnar á mjög lágu stigi. Höfuðorsök þessa eru hnignun hinnar kommúnísku hreyfingar og svik sósíaldemókratísku verkalýðsforingjanna. Fyrir verkalýðsleiðtogunum í dag vakir aðeins eitt: Að varðveita og viðhalda auðvaldsskipulaginu. Verkalýðsforingjarnir taka ábyrga afstöðu til auðvaldsþjóðfélagsins og þegar kreppir að eins og í dag, eru þeir fyrstir til að gera "rök" atvinnurekenda og ríkisvalds um "takmarkað greiðsluþol atvinnuveganna" að sínum. Þannig hefur verkalýðsforystan gert "kökukenningu" borgaranna að sinni og þannig vinnur hún að því að sundra verkalýðsstéttinni. Til að tryggja veldi sitt beitir forystan alls kyns brögðum: Lýðræðið hefur verið þrengt innan fagfélaganna, fundir eru sjaldan haldnir, verkamenn hafa engin áhrif á samningagerð, og samningar eru barðir í gegn án þess að verkafólk fái tækifæri til að kynna sér efni þeirra. Undanfarið hafa verkamenn oft hitt fyrir verkalýðsforystuna augliti til auglitis að baki víglína stéttaróvinarins, svo sem þegar Dagsbrúnarforystan stóð fremst í flokki fyrir Eimskip og Togaraafgreiðsluna við að auka vinnuálag á verkamönnum, fella niður kaffítíma o.þ.h. Verkalýðsforystan hefur í raun stóraukið miðstýringu verkalýðshreyfingarinnar og hún makkar við atvinnurekendur og ríkisvald um líf og kjör verkafólks, sem, vel að merkja, eru ekki kjör hennar sjálfrar. Í efnahagslegu tilliti er forystan hátt yfir hinn almenna verkamann hvað varðar kjör og lífsaðstöðu. Sem dæmi er níu manna nefnd ASÍ, sem starfaði frá hausti 1974 og fram á vor 1975. Í henni sátu hálaunaðir embættismenn, þingmenn og frægir bitlingasnatar sem eiga ekkert sameiginlegt með verkamönnum. Skilgreining Leníns að verkalýðsaðallinn sé höfuðstoð borgarastéttarinnar og fimmta herdeildin innan raða verkalýðsins er vissulega hárrétt. Fyrir tilverknað þessara manna hefur verkalýðsfélögunum verið breytt úr baráttutækjum verkalýðsstéttarinnar í tæki til að múlbinda baráttu hans.

En hvaða verkefni setur þetta okkur? Þessi eru verkefni kommúnista og stéttvíss verkafólks: Við verðum að berjast gegn og afhjúpa þjónkun verkalýðsforystunnar við auðvaldið hvar og hvenær sem hún birtist. Við verðum að berjast fyrir sameiningu verkalýðsstéttarinnar á grundvelli stéttabaráttunnar. Nú þegar eru komnir upp vísar að andstöðuliðum innan stærstu verkalýðsfélaga landsins. Þar sem kraftar kommúnista innan verkalýðshreyfingarinnar eru veikir í dag, verðum við að einbeina þeim að starfinu á vinnustöðunum og innan verkalýðsfélaganna. Á þeim vettvangi verður að útskýra fyrir verkalýðnum nauðsynina á myndun baráttusamfylkingar gegn kjararánsstefnu atvinnurekenda og ríkisvalds þeirra. Í kjölfar slíkrar baráttu er auðvelt að afhjúpa svik verkalýðsforingjanna sem ætíð munu standa með atvinnurekendum. Markmið okkar er að verja vígstöðu verkalýðsins á öllum punktum.

Sökum þess hversu kommúnistar hafa í dag lítil ítök meðal verkalýðsstéttarinnar verða þeir að forðast að dreifa kröftunum um of. Höfuðþungi starfsins verður að liggja innan stærstu verkalýðsfélaganna og á þeim vinnustöðum þar sem verkalýðurinn er samþjappaðastur. Mikilvægir vinnustaðir eru t.d. ÍSAL, höfnin, Áburðarverksmiðjan, aðrar stórar verksmiðjur og byggingariðnaðurinn. Við verðum að berjast harkalega gegn öllum skoðunum sem þýða undanslátt við verkalýðsaðalinn og við verðum að gera okkur grein fyrir því að eina rétta er að kasta uppkeypta aðlinum út úr félögunum og breyta þeim í raunveruleg baráttutæki í höndum verkafólks í hagsmunabaráttunni. Þessa baráttu verður að heyja undir vígorðunum: Búist til baráttu - annars verðið þið yfirunnir! og: Treystið á eigin krafta - endurbótasinnaða forystan mun svíkja! Þetta er mikilvægt til að uppræta allar skoðanir um að hægt sé að "þrýsta" á forystuna eða veita henni aðhald. Verkalýðsforystan þekkir sína herra og hún mun ekki láta þrýsta sér til að taka út úr sér bitlingadsuna. Það verður að kasta henni brott.

Við verðum að berjast gegn öllum skoðunum sem fela í sér að baráttan verði háð utan stéttarfélaganna. Þessar skoðanir koma bæði fram í kenningum KSMLb og EIKm-l. Kenningar sem miða að því að stofna einhvers konar breiða samfylkingu utan stéttarfélaganna geta einungis af sér óskapnað sem engu öðru getur áorkað en að vera kjaftasamkunda fyrir misvitra vinstrimenn.

Með því að vinna að skipulagningu verkalýðsins í andstöðulið gegn auðvaldinu og hlaupasnötum þess náum við tveim mikilvægum markmiðum: Við berjumst fyrir að verja lifibrauð stéttarinnar, og með skipulagningu eflum við samtakavitund og baráttuvilja verkalýðsins.

Framhald hinum megin.

UM LANDHELGISMÁLIÐ

# Full yfirráð yfir 200 mílunum

"Í spurningunni um sjálfsákvörðun þjóða höfum við, eins og í öllum öðrum spurningum, fyrst og fremst áhuga á sjálfsákvörðun öreiganna innan tiltekinnar þjóðar." (V.I. Lenín, Um sjálfsákvörðunarrétt þjóðanna, sænsk útg. 2:1, bls. 366).

**Umræður fyrir II. þing KSML**

Hvernig marxistar-lenínistar líta á landhelgismálið

Sérhvert vandamál verður að skoða út frá sjónarhóli hinnar díalektísku aðferðar, ef raunhæf lausn á að finnast. Þannig verður að gera hlutlæga greiningu á hlutlægu ástandi og tengja grundvallarafstöðu marxismans þjóðlegum sérkennum Íslands. Ísland er þróað kapitalískt land og landhelgisútfærslan er framkvæmd á tímaskeiði heimsvaldastefnunnar, nánar tiltekið þegar heimsvaldastefnan er í dauðateygjum sínum. Þetta verður að hafa í huga, þegar afstaða sérhverrar stéttar er rannsökuð og hlutlægir hagsmunir öreiganna metnir. Lenín bendir á, að með "sjálfsákvörðunarrétti þjóða er átt einungis við réttinn til tilveru sérstaks ríkis." (a.a. bls. 328) Landhelgismálið er hluti af spurningunni um sjálfsákvörðunarrétt þjóðanna, þar sem það fjallar einmitt um ákvörðun "landamæra" strandríkja. Þess vegna er pólitískur yfirráðaréttur strandríkjanna yfir 200 mílna landhelgi sinni einmitt kjarninn í spurningunni. Risaveldin og heimsvaldaríkin, sem telja sig hafa sögulegan, hefðbundinn rétt til siglinga og flotaæfinga á heimshöfunum gera sitt til að leiða athyglina frá þessu meginatriði. Bæði Sovétríkin og USA hafa "viðurkennt" rétt til mengunarlögsögu og fiskveiðilögsögu, en heimsvaldahagsmunir þeirra krefjast þess, að siglingafrelsi og rannsóknir á auðlindum hafsbotnsins, séu alþjóðaeign. Raunverulega eiga heimsvaldaríkin við sinn sérstaka rétt, þegar þau tala um "alþjóðarétt". Þau vilja hafa rétt til að sigla flota sínum upp að landsteinum annarra ríkja og ræna auðlindum sem raunverulega tilheyra öðrum ríkjum. Íslenska borgarastéttin, sem hiklaust selur sjálfsákvörðunarrétt íslensku þjóðarinnar, hvenær sem gróðahagsmunir hennar krefjast þess, hefur tekið sömu afstöðu og risaveldin. Hún kastar hagsmunum alþýðunnar á glæ og lætur sig engu skipta pólitísk yfirráð yfir landhelginni, en leggur höfuðáherslu á einokunarhagsmuni sína á fiskimiðunum. Verkalýðurinn hlýtur að leggja höfuðáherslu á pólitíska hlið málsins og því geta hagsmunir hans aldrei farið saman við hagsmuni einokunarauðvaldsins í þessu máli - frekar en öðrum. Verkalýðurinn verður að berjast fyrir fullum yfirráðum yfir 200 mílna landhelginni, gegn hvers kyns rányrkju og eyðingu auðlindanna, sem taka mið af stundargróða auðvaldsins. Samtímis er þessari baráttu stefnt gegn yfirgangi og útþenslustefnu risaveldanna beggja, Sovétríkjanna og Bandaríkjanna, og er órækur stuðningur við baráttu nýlendna og ófrjálsra ríkja fyrir efnahagslegu og pólitísku sjálfstæði. Afstaða KSML verður að einkennast af þessu: Viðurkenningu á jöfnum rétti allra ríkja til útfærslu í 200 mílur - ekki bara fiskveiðilögsögunnar heldur einnig siglingalögsögunnar. Hlutlægu mati á sérhverju einstöku tilfelli þegar ríki færa út í 200 mílur, út frá því sjónarhorni að uppræta hvers konar forréttindi og undanþágur.

Öfgarnir í landhelgismálinu

Í baráttu sinni fyrir 200 mílna siglingalögsögu og gegn rányrkju fiskimiðanna, verður verkalýðurinn að losa sig undan áhrifum borgarastéttarinnar. Svo lengi, sem hann lætur einokunarauðvaldið um að leiða baráttuna í landhelgismálinu, lætur hann þjóðrembinginn ráða ferðinni. Áróður einokunarauðvaldsins beinist að því að sameina alla þjóðina um einokunarhagsmuni sína, forréttindi sín o.s.frv. Pólitískir fulltrúar einokunarauðvaldsins egna íslenskum verkalýð gegn breskum og v-þýskum stéttarbræðrum sínum, en þegja eins og gröfin um að þeir hafa sjálfir "boðið" erlendum herskipum allt inn að 4 mílum, með því að færa ekki út siglingalögsöguna í 200 mílur. Það er einungis auðvaldinu til gagns, en til skaða fyrir verkalýðsstéttina, ef íslenskur verkalýður lætur þjóðrembinginn teyma sig til stríðs við erlenda stéttarbræður sína. Það er hins vegar skylda breskra og v-þýskra sjómanna að styðja útfærslu íslensku þjóðarinnar og viðurkenna skilyrðislaust rétt íslensku þjóðarinnar til að ráða málum sínum sjálf. Borgaraleg þjóðernishyggja kemur í veg fyrir samstöðu verkalýðsins í þessum löndum og gerir hinni alþjóðlegu verkalýðshreyfingu mikið ógagn. Þetta er annar öfginn í landhelgismálinu.

Hinn öfginn felst í andstöðu - meðvitaðri eða ómeðvitaðri - gegn útfærslu íslensku þjóðarinnar. KSML höfðu ranga afstöðu til landhelgismálsins frá upphafi. Þetta lýsti sér einkum í skilningsleysi á eðli málsins, við skoðuðum fiskveiðilögsöguna sem kjarna málsins, en

Framhald hinummegin.

# Mengun

Eftirfarandi grein birtist í Nýa Verkamanninum, málgagni KSML á Norðurlandi, 9. tölublaði, 1. árg. Hún er skrifuð sem liður í umræðunum um tillögu til ályktunnar um umhverfismál.

Rányrkjan á hendur náttúrunni er feykileg. Allir þekkja hvernig farið er með fiskimiðin og víða um land er ofbeitt, sérstaklega af ríkum hrossabændum sem vita ekki hrossa sinna tal. Mengun af völdum iðnaðar fyrirfinnst víða og eru stóriðjuframkvæmdir, s.s. álverið og Grundartangaverksmiðjan, allra hættulegastar. Þessar verksmiðjur eru reistar án þess að hugsa fyrir öðru en hámarksgróða. Hreinsitæki eru sem sé dýr og það borgar sig alls ekki fyrir eigendur verksmiðjanna að setja þau upp. Það er tímabært fyrir okkur norðlendinga að íhuga þetta mál, því að fyrirhuguð hefur verið verksmiðja við Eyjafjörð til að framleiða ál. Ekkert hefur þó enn verið ákveðið og meðan svo er, er tími til að berjast fyrir því að slík verksmiðja valdi ekki mengun. Ekki kemur til greina að berjast gegn slíkri verksmiðju af þeirri ástæðu einni að hún sé stóriðja, barátta gegn stóriðju er afturhaldssöm. Við berjumst gegn menguninni sem stóriðjan veldur í auðvaldsþjóðfélaginu og snúumst jafnframt gegn því skipulagi sem veldur þessari mengun. Að sjálfsögðu berjumst við fyrir náttúruverndun í þágu alþýðunnar. Við viljum ekki takmarkaða náttúruvernd í þeim eina tilgangi að selja útlendingum aðgang, "til að afla gjaldeyris", eins og rökin fyrir því hljóða.

Munurinn á náttúruvernd og náttúruvernd er einmitt fólgin í þessum mismun á tilgangi náttúruverndar, þ.e. náttúra til að selja, eða náttúra til að njóta.

-/ Ingólfur Jóhannesson

---

Framhald af fyrri síðu

UM FAGLEGU BARÁTTUNA

Flokkurinn verður í sívaxandi mæli að einbeita sér að starfinu innan verkalýðsfélaganna og vinnustaðanna, og miða að því að koma upp virkum baráttuhópum og sellum sem víðast. Í faglegu baráttunni verður flokkurinn að leggja ríkari áherslu en hingað til á að ná til sjómanna og verkamanna á landsbyggðinni. Hverfasellur verða að leggja mikla áherslu á áróðursstarfið á vinnustöðunum á sínu svæði, og sýna sig hvarvetna sem skeleggustu talsmenn verkalýðsins í baráttunni gegn okri og svindli sem viðgengst gegn verkalýðsstéttinni. Það er einungis með þrotlausu og óbilgjörnu starfi sem við náum því markmið að leiða verkalýðinn, og til að starfið leiði til slíks verða liðsmenn og einingar flokksins að sýna að þeir hafa enga aðra hagsmuni en verkalýðurinn.

-/Dagsbrúnarsella KSML

# Umræður fyrir II. þing KSML

Framhald af fyrri síðu

FULL YFIRRÁÐ YFIR 200 MÍLUNUM

ekki pólitíska útfærslu. Þannig réðumst við einkum gegn þjóðernis áróðri íslenska einokunarauðvaldsins og það með fullum rétti, en í öllum ákafanum gleymdis okkur, að þar með gáfum við raunverulega breskri þjóðernishyggju og heimsvaldaásælni byr í seglin, og heimsvaldaásælni Englands er miklu verri en þjóðernishyggja íslenska auðvaldsins. Með þessu létum við borgarastéttina raunverulega óáreitta um forystu í landhelgismálinu og gerðum allt of lítið til að skýra út hagsmuni íslenskrar alþýðu. En KSML skriðu þó aldrei undir pilsfald íslenskrar þjóðernishyggju eins og öll önnur pólitísk samtök á landinu gerðu.

Ég styð fyllilega þá tillögu að ályktun fyrir stofnþing Kommúnistaflokks Íslands, sem fram er komin (Stéttabaráttan 11/75) og álít að í baráttu okkar ættum við að leggja höfuðáherslu á þessi atriði: Alger útfærsla í 200 mílur samfara baráttu gegn innlendri og erlendri rányrkju. Miskunnarlaus afhjúpun á þjóðrembingi einokunarauðvaldsins og svikum þess og þjóna þess við þjóðlega hagsmuni íslensku þjóðarinnar. Fullur stuðningur og skilyrðislaus viðurkenning á útfærslu ríkja 3. heimsins og ósveigjanleg barátta gegn heimsvaldaásælni og átroðslum risaveldanna og annarra heimsvaldaríkja.

FULL YFIRRÁÐ YFIR 200 MÍLUNUM!

GEGN ÁSÆLNI OG FORRÉTTINDUM HEIMSVALDASTEFNUNNAR!

GEGN RÁNYRKJU - FYRIR FRIÐUN FISKIMIÐANNA!

ÍSLAND FYRIR ÍSLENSKAN VERKALÝÐ OG VINNANDI ALÞÝÐU!

-/KG

---

Æfisaga Stalíns eftir J. Murfy er nýkomin út. Í bókinni rekur höfundur æfi Stalíns frá fæðingu og fram á ár síðari heimsstyrjaldarinnar. En æfi Stalíns er svo samtvinnuð rússnesku byltingunni og uppbyggingu sósíalismanns í Sovétríkjunum að saga hans er jafnframt saga um gang byltingarinnar. Höfundur var framarlega í breska kommúnistaflokknum, og dvaldi oft í Sovétríkjunum. Hann var persónulega kunnugur öllum helstu leiðtogum Bolsévíkaflokksins. Murfy svarar mörgum áleitnum spurningum um Stalín og Sovétríkin. Útgefandi er Kristján Júlíusson, og þýðingu annaðist Sverrir Kristjánsson.

UM NATO OG HERSTÖVARNAR

# „Án rannsóknar er enginn réttur til að tala"

Undirritaður verður að viðurkenna að hann hafi fallið í þá gryfju að mynda sér skoðun áður en rannsóknum hefur verið lokið og þær jafnvel byrjaðar. Þannig komu fram 2 reginvillur í grein undirritaðs í 11. tbl. Stb. '75. Önnur var fólgin í því að telja "íslenskan verkalýð borgaralega sinnaðan, standa á grundvelli og hagsmunum borgarastéttarinnar," eins og segir í greininni. Þetta er ekki alls kostar rétt eða vísindalega nákvæmt og leiðir til alrangrar niðurstöðu, sbr. "þá þýðir vígorðið Ísland fyrir íslenskan verkalýð í raun Ísland fyrir borgaralega sinnaðan íslenskan verkalýð." Með sömu röksemdafærslu mundi vígorðið fyrir alræði öreiganna "þýða" alræði borgaralegra öreiga (!), vígorðið öreigastétt gegn borgarastétt mundi "þýða" borgaraleg öreigastétt gegn borgarastétt (!!). Röksemdafærslan er "erkiíhaldssöm."

Hið rétta er að meginþorri íslensks verkalýðs er illa stéttmeðvitaður, ekki meðvitaður um hagsmuni sína, síst pólitíska hagsmuni, fagleg vitund er þó útbreiddari þótt lítil sé. Af þessu leiðir að meginþorri íslensks verkalýðs er opinn fyrir borgaralegu lýðskrumsflokkunum, einkum Alþýðubandalaginu og Sjálfstæðisflokknum. Ekki vegna þess að verkalýðurinn standi á grundvelli borgaranna og fyrir hagsmuni þeirra, heldur vegna þess að lýðskrumurunum tekst að villa honum sýn og telja honum trú um að hagsmunir hans fari saman við hagsmuni þjóðarinnar allrar, eða atvinnuveganna, eins og borgurunum er tamt að kalla sjálfa sig. Eina leiðin sem okkur er fær til að útbreiða stéttvísina er að berjast gegn þessum erindrekum borgaranna og setja gegn þeim línu stéttabaráttunnar í hverju máli, finna baráttumarkmið sem sameina verkalýðinn og ala hann upp í anda sósíalisma, lýðræðis og alþjóðahyggju og afhjúpa þannig miskunnarlaust lýðskrum borgaralegu stjórnmálaflokkanna.

Hin villan er fólgin í því að álíta að sjálfsákvörðunarréttur íslensku þjóðarinnar sé mikilvæg spurning fyrir íslenskan verkalýð. Öll vandamál sem við kljáumst við í dag eru vandamál eftir að rétturinn til sjálfsákvörðunar er fenginn (með aðskilnaðinum við Danmörku). Málið um rétt þjóða til sjálfsákvörðunar er mál sem varðar nýlendurnar en ekki heimsvaldaríki sem hafa lokið baráttunni fyrir þess um rétti, svo sem Ísland, með stofnun þjóðríkja. Fyrir íslenskan verkalýð snýst málið um, á hvern veg hann getur með baráttu sinni tryggt nýlendunum og ófrjálsu löndunum frelsi til sjálfsákvörðunar og skapað þannig víðtæka, alþjóðlega samfylkingu gegn auðvaldi, heimsvaldastefnu og yfirdrottnunarstefnu risaveldanna, samfylkingu sem byggð er á jöfnum rétti og gagnkvæmri virðingu.

Í dag finnur þessi barátta íslensks verkalýðs sér þrjár meginkvíslar og getur að mínu áliti ekki fundið sér aðrar. Í fyrsta lagi skilyrðislaus viðurkenning á rétti allra þjóða til sjálfsákvörðunar, þ.e. skilyrðislaus stuðningur við þjóðfrelsis- og sjálfstæðisbaráttu 3. heims landanna. Í öðru lagi barátta gegn áhrifum og yfirgangi risaveldanna, gegn stríðsfyriræltunum þeirra og fyrir því að Ísland skipi sér utan áhrifasvæðis hvorutveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Það er barátta fyrir fullu og óskoruðu sjálfstæði landsins og fyrir því að það skipi sér þannig í sístækkandi samfylkingu gegn risaveldunum Og í þriðja lagi barátta gegn íslensku borgarastéttinni, sem tekur þátt í uppskiptingu heimsins (einkum með NATO-aðildinni), og liggur hundflöt fyrir bandarísku heimsvaldastefnunni (herstöðvarnar, pólitískt þýlyndi í alþjóðamálum o.fl.), og er meginhindrunin í vegi þess, að íslenskur verkalýður, í forystu fyrir hinni vinnandi alþýðu, taki völdin í sínar hendur og noti þau til að framleiða í þágu samfélagsins alls og til að efla hið alþjóðlega bræðralag allra manna.

Baráttan gegn NATO og herstöðvunum er liður í þessari baráttu, og það mikilvægur liður, því það er fyrst og fremst með aðild að NATO sem íslenska borgarastéttin tekur þátt í uppskiptingu heimsins milli heimsvaldaríkjanna á norðurhveli jarðar og bandaríski herinn hér á landi er meginafleiðingin af þýlyndi ísl. auðvaldsins við bandaríska risaveldið. Við berjumst fyrir úrsögn úr Atlanshafsbandalaginu og brottrekstri hersins vegna þess að a) með því berjumst við á okkar hátt fyrir frelsi og sjálfstæði asíu- afríku- og s-ameríkulandanna sem NATO-ríkin og sérstaklega Bandaríkin kúga, arðræna og halda niðri á allan hátt, b) með því berjumst við fyrir fullu sjálfstæði og frelsi íslensku þjóðarinnar, því á henni sannast að "engin þjóð getur verið frjáls ef hún kúgar aðrar þjóðir." Þannig búum við í haginn fyrir valdatöku verkalýðsins sem er með þessu alinn upp í anda sósíalisma, lýðræðis og alþjóðahyggju og tryggir sér bandamenn í frelsisbaráttu 3. heims landanna.

Þannig tel ég liggja ljóst fyrir, að baráttuna á þessum vettvangi (þ.e. á vettvangi NATO- og herstöðvaandstæðinga) eigi og verði að heyja undir þremur meginmarkmiðum. Markmiðum sem samtök NATO- og herstöðvaandstæðinga verða að berjast fyrir, ef árangur á að nást:

1. Ísland úr NATO - herinn burt!
2. Gegn stríðsfyriræltunum risaveldanna!
3. Fyrir óháðu, sósíalísku Íslandi!

-/óhs